Skrauta". Bað Högni þá skjótt leggja at skipunum, ok svá var gert. Sá maðr, er yfir var settr drekann, hét Ívarr; hann var af Finmörk austan, einn góðr riddari. Þá mælti Högni: „Þér hinir leiðu þrælar, skuluð þat vita, at ek býð tvó kosti; annarr er sá, at þér gefið á mitt vald þennan góða dreka, enn sá annarr, ef þér vilið eigi þennan, at þér verið þá fé ok fjör, meðan þrek til vinst fyrir oss". Ívarr svaraði hans máli, ok sagði þat öngva vón at hann uppgæfi drekann. Við þetta varð Högni ævareiðr; tókst nú at skömmum fresti með þeim hinn snarpasti bardagi, ok var þá eigi at sökum at spyrja; eggjaði þá Högni sína menn til atsóknar, ok mælti við einn sinna manna, er Svalr hét: „Þat hugða ek, at þú mundir vera góðr riddari, enn nú vill mér eigi þat reynast". Svalr mælti: „Ef enginn þinna manna, konungsson, gengr tæpilegar fram enn ek, þá má ek maklega sneypu líða". Ok í þessu hljóp Högni fyrstr upp á drekann, ok með honum Svalr; hjó Högni þá ok lagði hvern sem fyrir stóð, ok þyrmdi öngum, enn Svalr gekk með öðru borði; kom Ívarr þá í móti Sval, ok höggr til hans, svá at Svalr fell flatr niðr, ok blóð rann ákaft af munni hans ok vitum. Þá mælti Ívarr: „Segðu heim til Svíþjóðar, þá þú kemr þar, at þú hafir hitt oss norska fyrir, ok vil ek nú þó bæta þér, ef þér þykir eigi duga". Þá mælti Svalr: „Lítt veiztu þat, löðrmenni, hvórt vit erum skildir at svá búnu eðr eigi". Spratt nú Svalr fimlega á fætr, greip sinni hendi um hvórn fót Ívari, ok slengdi honum niðr, svá haussinn brotnaði í smátt. Þá mælti Svalr: „Svá plögum vér svenskir at gera refunum, nær þeir ganga í gildruna, ok hlægir mik þat, at eigi munir þú fréttir heim segja Erlingi konungi". Enn er Ívarr var fallinn, hafði Högni gagnrutt drekann, ok var þetta alt

jafnsnart í senn; gengu nú allir á hönd Högna, sem eftir vóru; tók Högni þá drekann á sitt vald, sigldi síðan heim til hafnar, ok lét nú þegar reisa herbúðir sínar skamt frá borginni Erlings konungs.

XVII. Enn at morgni komanda, er lítt var ljóst, sendi Högni tólf menn til hallarinnar, ok var Svalr fyrir liði þeirra; bað Högni at þeir segðu þeim Sörla hinum sterka ok Erlingi konungi föður hans, at hann byði þeim bardaga þegar samstundis; fóru nú sendimenn, ok létta eigi fyrr, enn þeir koma í höllina, þar eð Erlingr konungr inni sat með öllum sínum höfðingjum ok lendum lýð; heilsar Svalr upp á konung, ok mælti svá: „Högni, sonr Hálfdanar konungs hefir oss hingat sent, ok lætr kunngera þér, konungr, at hann býðr Sörla hinum sterka bardaga, ef hann er hér innanlands, ella sjálfum þér, ef hann er eigi heima, ok vill nú Högni hefna á ykkr feðgum maklegra svívirðinga; uggir mik eigi muni ykkr betr fara, enn þeim leiðu þrælum, er verja skyldu land þitt ok drekann Skrauta, hverir fljótt fellu fyrir oss, sem ragar skógargeitr; lítast mér þínir menn, konungr, heldr huglausir vera, ok heldr hentir til at þjóna hér í höll þinni, heldr enn bardaga halda við vaska stríðsmenn þá af Kúrlandi ok Köldu-Svíþjóð; því er þat mitt hit bezta ráð, at þú gefir þik fanginn ok alt þitt ríki á vald Högna, undir þá miskunn, sem honum þykir þú maklegr til vera at þiggja“. Þá mælti Erlingr konungr: „Eigi var lukkan fráhorfin Högna, er hann náði einum þvílíkum, sem þú ert, því at mörgum mundi miðr fara at flytja erindi herra síns enn þér; skrafar þú eigi hug ór oss norskum með stóryrðum þínum ok drembilæti; væri þat maklegast, ek léti hengja þik á gálga fyrir djörfung þína, ok kendi þér svá, at leika eigi þvílíkt við fleiri“. Svalr mælti: „Eigi er ek

hræddr um þat, eðr fyrir því, þótt fram komi; mundi þín þá at illu meir ok framar getit verða, enn annarra höfðingja allra, sem þú síðr grið gæfir sendimönnum“. Erlingr konungr mælti: „Gakk burt, ok seg Högna, at vér munum koma til móts við hann“. Gekk Svalr þá ór borginni, ok hitti Högna at máli; greindi hann honum þá innilega frá viðræðum þeirra Erlings konungs; enn eftir þat at Svalr var burt ór höllinni, árnuðu honum allir ills, þeir er eftir vóru.

XVIII. Nú sem Högni hafði þetta heyrt, sem nú var frá sagt, klæddist hann skyrtu einni, er engin járn kunnu á at bíta, ok spenti sik sverði því, er Sigrljómi hét, ok forðum átti Hrólfr konungr kraki. Síðan kvaddi Högni allan sinn her til orrostu, ok stóð nú fremst sinna manna; kom nú Erlingr konungr ór borginni með allan sinn her, ásamt Haraldi konungi ok Sigvalda syni sínum. Maðr sá, er merkit bar fyrir Erlingi konungi hét Sverrir; hann var af Finnmörk austan, góðr riddari. Högni reið nú fram í fylkingar Noregs manna, hjó ok lagði hvern er fyrir varð, ok þyrmdi öngum; ok í þessarri svipan mætti hann Sverri, merkismanni Erlings konungs, ok hjó til hans með sínu sverði, enn Sverrir brást í jörð niðr; ríðr nú Högni um þverar fylkingar, ok fellir hvórn um annan. Enn sem hann er ákafastr at höggva niðr liðit, kemr svá mikit león upp ór jörðunni, at öllum stóð femtr af ógn þeirri; snerist leónit þá brátt í móti Högna, ok laust sínum hala á hest hans, svá hart at Högni hraut langt í burt ok í einn skógarrunna. Nú spratt Högni fljótt ok fimlega á fætr, ok höggr í móti dýrinu, enn þat var sem ógert, því eigi beit hit minsta á leónit, ok tók þat við hverju hans lagi. Nú snarar Högni sínu sverði, ræðr í móti dýrinu, ok sviftast nú harðlega, svá at alt gekk ór lagi, þat sem fyrir varð,

jafnvel eikrnar af stofnunum; stóð þessi glíma um heilar þrjár stundir; neytti konungsson orku ok *a*lls kraftar, tók dýrit upp á bringu sér, ok slengdi því niðr við einn eikarstofn, svá at í sundr fór í því hryggrinn, enn við þetta spýr dýrit eitri með ógurlegum frýsingum ok dimmri svælu, enn skyrtunnar dugnaðr hlífði konungssyni, at hann sakaði ekki, enn þó leið hann í ómegin ofan á leónit. Erlingr konungr sér nú þetta, ok ríðr þangat sem Högni lá, ok hjó þvert um herðar hans þrjú högg, enn eigi at heldr beit á hann sverðit. Nú sem konungr verðr þess víss, at eigi bíta hann vópn, þá kallar hann á einn sinna manna, er Gellir hét, ok bað hann ljósta Högna til dauðs með kylfu sinni; enn er Svalr sér Erling konung standa yfir Högna með nöktu sverði, þá setti hann hest sinn á skeið, sem mest mátti hann, reið at Erlingi konungi, lagði til hans sínu spjóti, er minst varði, ok snaraði konungi ór söðlinum meir enn fjörutíu fet, svá at brotnaði í honum hvert bein. Nú snerist Gellir í móti Sval, hefr upp kylfuna, ok vildi ljósta hann til dauða; sér Svalr þá vísan bana sinn, ef á kæmi, hljóp hann því ór söðlinum aftr á bak ok kom kylfan á hestinn, svá at í sundr gekk hryggrinn. Nú ræðr Svalr á Gelli, ok sviftast þeir harðlega, þar til er Gellir fell til jarðar. Þá mælti Gellir: „Nú vilda ek fóstra mín kæmi. Því næst fann Svalr, at kipt var í herðar honum heldr óþyrmilega á bak aftr, svá nú varð Svalr undir, enn Gellir ofaná, ok hugði nú Gellir, at Svalr skyldi lífit láta. Í þessu raknar Högni við, grípr sverð sitt, ok höggr Gelli sundr í miðju; komst Svalr á fætr við þetta, þótt hann leikstirðr væri; enn er Högni laut við höggit, hjó Haraldr konungr þvert um herðar á honum, svá Högni var nær sem fallinn. Nú snerist Högni við, reiðir upp sverðit, ok

höggr til Haralds konungs, svá at hann klauf hann alt at söðli niðr. Síðan reið Högni þangat at, sem Sigvaldi var fyrir, ok setti sverðit á háls honum, svá af tók höfuðit. Var nú fátt eftir orðit af þeim norsku, enn þeir, sem eftir stóðu, flýðu allir í borgina, ok intu drotningu alt um fráfall konunganna ok Sigvalda; var nú svá mikil sorg í borginni, at enginn gáði hvórki svefns né matar at neyta.

XIX. At morgni eftir orrostuna, sem lítt var ljóst, bjóst Högni í borgina með öllu liði sínu; gekk hann fyrst í höll konungsins, ok fann þar öngvan mann inni, utan tilkomulausa þræla; frétti Högni þá at, hvar drotning væri, enn þeir sögðu hana gengna í höll dóttur sinnar. Enn er þeir Högni hugðu þangat at vitja, ok þeir vóru komnir at þeim skíðgarði, er var í kring skemmuna, laust á svá mikilli þoku, at enginn sá annan, ok fundu þeir hvórki skíðgarðinn né skemmuna; fátu þeir þá hvergi; enn um síðir varð svá mikil móða fyrir hernum, at margir duttu þar ofan í á kaf, ok svömluðu þar svá innan um þá nótt alla með stórum erfiðismunum; varð þeim torsótt at klifrast neðan þá hamra, er tveimmegin vóru móðunnar; gekk þetta alt til dags. Enn sem dagaði, sjá menn öngva móðu, ok höfðu þeir verit at klórast neðan skíðgarðinn alt um kring, þar þeir hugðu hamra vera, duttu svá þar ofan fyrir, ok gátu eigi atgert. Ok er þeir sáu slíkt óefni í hafa orðit, bauð Högni at brjóta portin, ok ná hurðinni af hjörunum; enn er þat var gert, ganga þeir Högni í skemmuna, ok er þeir kómu þar, sáu þeir öngvan mann; tók þá flesta at stanza af slíku. Lét Högni þá uppbrjóta allar féhirzlur, ok taka þaðan gull ok silfr ok dýrleg klæði; fór hann síðan á burt með öllu liði sínu; ok er þeir vóru skamt komnir mjök, verðr Högna

aftrlitit, ok sér á múrnum standa konu ófríða ok mjök aldraða ásýndum, ok hjá henni eina jómfrú, svá fagra ok dæilega ásýndum, at Högna fell vel til geðs hennar prýði. Þá mælti Högni til Svals: „Hver grunar þik at þessi sé hin fagra, sem þar stendr hjá þeirri ljótu kerlingu á múrnum?“ Svalr mælti: „Þat mun vera dóttir Erlings konungs, Ingibjörg, ok fóstra hennar, ok munu um brögð búa við þik ok vilja oss feiga“. Högni mælti: „Aftr skulum vér hverfa, ok ná þeirri hinni fögru mey“. Svalr mælti: „Eigi má svá vera, herra, því at í nótt fengum vér hrakning með stórum erfiðismunum, enn nú munum vér fá dauðann vísan, ef vit aftrsnúum“. Högni bað þá, at Svalr ráða skyldi. Riðu þeir nú til tjalda, ok skifta öllum sínum herbúðum. Síðan stigu þeir á skip, létu frá landi, ok sigldu burt af Noregi sínum skipaflota; vóru þau fimtíu at tölu með drekanum Skrauta. Sigldu þeir nú beinleiðis hægan byr, alt til þess þeir kómu til Svíaveldis.

XX. Hins er nú at geta, er áðr var frá horfit, at Sörli konungsson kom í Svíaríki; tók hann höfn nærri borginni, ok lét reisa þar sínar herbúðir. Hann hafði í sínu liði mart vaskra manna. Tveir bræðr vóru með honum finskir; hét annarr þeirra Falr, enn annarr Fróðel; þeir vóru báðir vel mentir i kyngikröftum öllum ok forneskju, svá at nær þeim sýndist vóru þeir aðra stund í jörðu; enn svá þótti mönnum, sem ör flygi af hverjum þeirra fingri, ok fyrir hverri ör maðr til dauða kjörinn. Með Sörla vóru þeir þrír bræðr aðrir, sem aldri höfðu mæðzt né sigrazt í neinni orrostu; þeir hétu Ámundi, Austmundr ok Arnljótr gauzki; enn er þeir höfðu sínar herbúðir sett, konungsson ok hans menn, sendir hann tólf menn til hallarinnar, ok var Sverrir

formaðr ferðarinnar. Ok er sendimenn innkómu í höllina, þar er Sigmundr sat með sínum höfðingjum, þá mælti Sverrir: „Sörli hinn sterki, son konungsins af Noregi, hefir oss hingat sent, ok lætr þér kunngera, at hann býðr þér sátt ok sæmd fyrir konunginn Hálfdan, föður þinn, ok þat alt fé er konungr átti, þar með vináttu sína ok fóstbræðralag, ok alla þá sæmd er hann kann frekast at veita ykkr bræðrum“. Ok er Sigmundr heyrði þessi orð ok boð, þá varð hann óðr ok ærr, með ákafri grimd ok forsugu hjarta ok mælti svá: „Pakkið yðr skjótt héðan, ok innið þat þessum níðingi, er þér eruð frá sendir, at hann skal höggvinn verða fyrir hund ok hrafn, ok síðan á eldi brennast bæði hann ok allr hans herr?“ Sverrir mælti: „Eigi mun Sörli hræðast þessar hótanir“. Sigmundr mælti: „Verið skjótt burt frá augum mínum, þér leiðu þrælar, ok innið slíkt Sörla, at hann á öngrar vægðar vón af oss, ok skal hann fordæmdr fá makleg laun sinna skammarlegra hryðjuverka, þau sem fæsta skal eftir langa“. Gekk Sverrir nú burt, ok innir Sörla alt af viðræðu þeirra Sigmundar, svá sem tilbar, ok kveðr öngra sátta framar vón vera meðal þeirra. Eftir þetta svá talat býr Sörli hinn sterki allan sinn her til orrostu; enn þeir Sigmundr ok Þórir sterki þeystu sitt lið alt út af borginni, ok var nú hit mesta heróp gert af hvórumtveggjum með miklum lúðraþyt ok trumbuhljóðum. Ok er fylkingar kómu saman, hjó Sörli ok lagði hvern er fyrir stóð, ok rauf hann fylkingu Sigmundar mörgum sinnum bæði um þvert ok at endilöngu. Enn er Sigmundr konungsson sá þat, hugði hann at rétta við fylkingararminn, ok reið nú fram ákaflega; mætti þá í hernum þeim bræðrum Fal ok Fróðel, ok sá hann þeir drápu svá liðit niðr, at undrum gengdi; vildi nú Sigmundr

hefna sinna manna, reiddi upp sverðit, ok hjó til Fróðels, enn hann brást í jörð niðr við höggit; náði Sígmundr þá til hans í því, ok vildi hann upp toga; kom þá Falr at í þessu, neðan ór jörðinni, á bak til við Sigmund, ok lagði hann neðan í kviðinn undir brynjuna, svá at þat varð hans bani; fell nú Sigmundr dauðr niðr, ok fór þar allr hans ofsi. Enn er Þórir hinn sterki leit þetta, ok sá at eigi mundi tjá at berjast lengr við Sörla, þá flýði hann aftr í borgina, með þat fátt liðs, er eftir var orðit.

XXI. Enn er Sörli sá þat, færði hann sínar herbúðir nær borginni, ok gengu nú at með oddi ok egg, at brjóta múrinn, enn Þórir ok hans menn báru út á þá af múrnum vellanda bik ok brennistein, svá at Sörli fekk þar af mikit mannspell; lét hann þá aftr upptaka sínar herbúðir, ok færa þær lengra í burt frá borginni, þangat er fyrst höfðu þær staðit.

XXII. Nú sem þetta var tíðinda, kemr hertoginn Astró af Englandi með óflýjanda her á mörgum skipum ok tókst nú af nýju hin snarpasta orrosta með þeim Sörla konungssyni; fell þá svá liðit niðr af hvórumtveggjum sem hrátt hrís, nær þat er í skógi kvistat. Reið nú Sörli hinn sterki fram ákaflega, ok feldi lið á báðar hendr, ok slíkt hit sama hertoginn Astró aftr í mót; stóð sú orrosta í næstu tvó daga, svá ósýnt þótti, hvórir sigra mundu.

XXIII. Ok er hinn þriði dagr kom, sáu menn mörg skip af hafinu sigla ok þangat at landi stefna, þau vóru öll vel búin, enn þó bar eitt langt af öllum öðrum; þar þóttust menn kenna drekann Skrauta, ok gátu menn þá til, at þetta mundi vera ferð Högna Hálfdanarsonar Brönufóstra. Enn er Sörli vissi þetta, brá honum svá nokkut við, ok mælti: „Nú munu þau

umskifti nokkur vera orðin í Noregi, er oss munu enn eigi opinber, því ek kenni hér drekann Skrauta, ok mun þá enn eigi enduð deila vór á meðal; skulum vér fyrr falla með hreysti, enn vér ragir reynumst". Allir hétu konungssyni hér um góðu, at honum fylgja skyldu, ok eigi við hann skilja, fyrr enn dauðinn skildi þá; bar nú þessi skip brátt at landi, ok lagði Högni drekanum á góða höfn sem næst borginni, ok svá gerðu allir skipstjórnarmenn. Lét nú Högni akkerum kasta í grunn sævar, ok eftir þat lét hann tjalda sínu gullofnu silkitjaldi, ok gekk þar inn síðan með öllum sínum vildustu mönnum; drukku þeir þar ok vóru glaðir. Nú er þeir sjá þetta, hertoginn Astró ok Þórir sterki, at Högni er við land kominn, ok þeir þektu þat gerla, at drekinn Skrauti var fyrir landi, þá urðu þeir mjök glaðir við kómu hans. Riðu þeir til herbúða Högna, ok varð þar mikill fagnaðarfundr meðal þeirra allra; innir nú Þórir Högna alt frá viðskiftum þeirra Sörla ok Sigmundar bróður hans, ok svá um boð þau, er Sörli bauð Sigmundi. Högni hlýddi á þetta, ok lagði fátt til. Eftir þat gengu þeir allir með liðit heim til borgarinnar, ok drukku listilega í þrjá daga hina næstu í höllinni, ok vóru glaðir ok kátir.

XXIV. Enn þá hinn fjórði dagr kom, sendi Högni tólf menn til herbúða Sörla, ok bað hann viðbúinn vera, at mæta sér, ok hefja enn *af* nýju orrustu; kvað nú þennan dag enda skyldu verða á þeirra máli. Enn er Sörli heyrði þetta, kvaðst hann í stað til reiðu vera, ok eigi dvelja skyldu. Fylktu þá þegar hvórirtveggju sínu liði, ok varð nú hörð orrosta ok grimmileg; ok með því at flest var manna fallit af liði Sörla, þá hallaðist brátt á hann bardaginn, enn fátt var lið hans á fæti eftir. Þórir sterki reið þá þar at, sem fyrir var Karmon

fóstri Sörla, ok veitti honum bana; enn er Sörli sá þat, varð hann afarreiðr, ok hleypti sínum hesti eftir Þóri, ok hugði hann skyldi bana hljóta, eðr sjálfr sitt líf láta, ok er þat sér Högni, mælti hann: „Þat mun nú ráð, Sörli, at vit reynum með okkr, því at eigi mun seinna betra“. Sörli lézt þess albúinn vera.

XXV. Reið nú hvórr þeirra svá hart í móti öðrum, at hestarnir beggja vóru nær sem fallnir, ok hjuggu þeir nú sundr hvórr annars hest í bógunum, enn hvórgi kom sári á annan, því at herklæðin hlífðu þeim svá ágæta vel, ok var þat lengi at þeir hjuggust þanninn, ok hvórugan var at áfrýja um vörn ok sókn. Nú sér Sörli, at eigi muni tjá, at skifta lengr höggum við Högna; snarar hann þá sverðinu langt frá sér í burt, ok ræðr þegar á Högna, enn hann grípr í mót af öllu afli, ok sviftast þeir nú harðlega; þurfti þá eigi at sóknum at spyrja; hirti þá hvórrgi friðar né griða annan biðja, ok var þeirra atgangr hinn grimmilegasti, svá at öngvir þóttust slíkar sviftingar sét hafa fyrr millum tveggja menskra manna. Nú lítr Sörli einn lækjarfarveg mjök djúpan þar skamt frá sér, ok hyggr at Högni skuli þar í falla; kippir nú Högna at sér sem harðfengilegast, er þeir nálguðust skurðinn. Enn er Högni sér, hvat hann muni áformat hafa, þá hleypr hann sem harðast í fang honum, er hann mátti; varð nú meira kastit á Sörla, enn hann átti til vón, ok fellr hann þá öfugr á bak aftr, ok hleypr nú Högni á hann ofan, ok lætr kné fylgja kviði. Þá mælti Högni: „Fjarri mér er nú sverðit Sigrljómi, er ek þess helzt við þarf, ok mun þat þykja illa atunnit, ef ek bít þik á barkann, sem tröll gera, ok ef svá er, sem sagt er, at þú sért manna hugaðastr, ok fullhugi kallaðr, þá ligðu hér nú kyrr, ok bíð mín, á meðan ek tek sverðit“. Stóð Högni

þá upp, ok gekk þangat, sem sverðit lá, enn Sörli lá kyrr sem áðr. Sér nú Högni þat, at hvergi dignaði hjarta Sörla við þetta, ok mælti hann þá: „Eigi á ek, Sörli, stórrar svívirðingar á þér at hefna, ok kalla ek nærri jafn teflt með okkr; skaltu nú þiggja af mér líf, ef þú vilt, ok skal þat mest í ríkja, at þú bauðst þrisvar líf föður mínum, enn þótt hann eigi þín boð þiggja vildi, ok var þér þar vorkunn á, þótt svá lenti með ykkr, sem forlögin höfðu fyrirhugat; fór þér ok allvel í boðum þínum við Sigmund bróður minn, enn þótt hann eigi þekkjast vildi; býð ek því þér nú hér á ofan vináttu mína ok fóstbræðralag, ok gef þú mér svör í móti boðum mínum, hversu þér líkar þetta". Sörli mælti: „Enginn mundi mér slíkt boðit hafa, ok mun mér sæmd vera í, at þiggja þessi boð af slíkum manni, sem ek hygg þik vera munu"; ok eftir þetta lét Högni hann upp standa. Sættust þeir þá sín á milli heilum sáttum; gengu þeir nú þar til, sem hertoginn Astró ok Þórir sterki vóru, ok sætti Högni Sörla hinn sterka við báða þá, svá at nú líkaði hvórum tveggjum betr enn áðr. Hér eftir gengu þeir allir saman heim til hallarinnar, ok drukku nú glaðir ok kátir í marga daga hina næstu, svá at öll styrjöld var á burt horfin.

XXVI. Síðan sigldu þeir af Svíþjóð á burt, ok kómu til Englands; gaf þeim vel byri ok kómust með heilu ok höldnu þangat hit fyrsta, Ok er Högni hittir at máli systur sína, drotningu Marsibil, segir hann henni alt frá viðskiftum þeirra Sörla hins sterka, ok svá þat með, at nú eru þeir sáttir ok fóstbræðr orðnir. Enn er hún heyrði þat, varð hún svá full harms ok reiði, at enginn fekk hana stilta; lét hún þá, at aldri mundi hún til friðs vera upp frá þeim degi, fyrr enn Sörli væri af dögum ráðinn, ella hann skyldi í sundr

drafna ok aldri frið hafa. Sörli heyrði nú þetta, þar eð hann sat, ok mælti nú þetta með sjálfum sér hljótt, svá enginn heyrði: „Þat vilda ek nú, at Mána kerling, vinkona mín, væri komin at stilla ofsa þinn“; ok eftir þat gekk Sörli þangat at, sem drotning sat, ok lagði höfuð í kné henni; mælti hann þá: „Svá er nú komit, drotning, at hér máttu fá at líta Sörla hinn sterka er menn kalla, ok ger nú til við hann, hvat þér líkar“. Enn sem drotning sá hann, rénaði henni öll reiði, ok varð með öllu orðfall. Síðan sætti Högni Sörla við drotningu systur sína, ok var nú drukkit listugt vín ok leikar framdir með kurt ok hæversku í hina næstu þrjá daga. Enn at liðinni veizlunni, sigldu þeir burt til Noregs, ok sóttu þangat þær Ingibjörgu ok Steinvöru, konungsdætrnar Erlings ok Haralds; sigldu síðan af Noregi aftr, ok heim til Svíaríkis með öllu sínu föruneyti; var þá haldin veizla dýrleg ok at boði gengit. Fekk Högni þá Ingibjargar, systur Sörla, enn Sörli fekk hans systur aftr í mót, ok er hún eigi nefnd, enn Þórir sterki fekk Steinvarar, dóttur Haralds konungs Valdimarssonar. Vóru þessi brullaup öll haldin í einu, með gleði ok góðum fagnaði, ok allskonar listilegri skemtan, er þá var tíð mönnum í því landi. Ok at endaðri veizlunni, helt Sörli aftr heim til Noregs, ok gerðist þar konungr yfir, enn Högni gerðist konungr yfir Svíaríki, ok stýrði því alt til dauðadags; gerði hann Þóri sterka at jarli þar í ríkinu. Þeir Högni ok Sörli slitu aldri sína vináttu, meðan þeir lifðu báðir, ok er eigi getit þar um, hvórt þeim hafi barna auðit orðit, eðr eigi, eftir sik. Lýkr hér nú sögunni af Sörla hinum sterka ok hans miklu afreksverkum, með svá sögðu niðrlagi ok endalykt.



# Hjálmþérs saga ok Ölvés.

---

Þessi saga byrjast af einum *ágætum konungi, er Yngi hét; hann var *velbúinn maðr at öllum íþróttum, meiri ok mektugri, vænni ok vitrari, stærri ok sterkari enn hverr annarr í veröldinni honum samtíða. Hann lá í hernaði hinn fyrra hlut ævi sinnar ok vann undir sik mörg konungaríki, ok vóru þeir honum skattgildir. Hann átti at ráða fyrir Mannheimum, hvert eð var öllum löndum meira ok gagnauðugra. Konungr átti ágæta drotningu, er Marsebil hét; hún var prýdd öllum kvenlegum listum. Þeim varð sonar auðit, er Hjálmþér hét; hann var vænn, stórr ok sterkr ok fimr við allar íþróttir, manna færastr þegar á unga aldri. Konungr lét kenna honum allar listir, þær sem ungum mönnum var títt at læra. Einn jarl var í ríki konungs, er Herrauðr hét; hann kunni allar listir þær sem þá vóru tíðar; klókskap ok vitrleika hafði hann yfir hvern mann fram. Hann var

hinn æðsti vin konungs ok fóstbróðir. Hann átti sér son einn ungan ok vænan, er Ölvér hét; jarl kendi honum allar listir; hann hafði xxx. leiksveina ok reið á skóg daglega at skjóta dýr ok fugla. Liðu svá tímar þar til at Ölvér var fimtán vetra; var hann þá manna stærstr ok sterkastr ok bar af hverjum manni tafl, sund ok (í) turniment at ríða. Þat var eitt sumar, at Yngi konungr lét búa veizlu með allri þeirri mekt, er fá kunni; þangat var boðit jarlinum ok syni hans ok mörgu öðru stórmenni ok var veizlan en bezta. Þat var einn dag, er konungr ok jarl sátu undir drykkjuborðum, ok vóru glaðir ok kátir, þá mælti konungr: „Þat vil ek, fóstbróðir, at þú takir við syni mínum til fóstrs". Jarl bað hann ráða. Enn at liðinni veizlunni gaf konungr þeim feðgum góðar gjafir; fór Hjálmþér nú með jarli. Hann nam skjótt allar þær listir sem Herrauðr kunni. Þat er sagt, at kært væri með þeim Hjálmþér ok Ölvé, enn jarl skipaði honum at þjóna Hjálmþér í öllu ok vægja fyrir honum, ok svá gerði Ölvér.

II. Enn er þrír vetr vóru liðnir, sendir konungr eftir syni sínum. Hjálmþér gekk fyrir jarl ok mælti: „Þess vil ek biðja þik, fóstri minn, at þú látir Ölvér fara með mér". Jarl bað Ölvér því ráða. Þeir gerðu nú svá. Jarl var sjálfr í för með þeim. Konungr hafði veizlu búna; hann tók við jarli ok syni sínum með allri vegsemd, enn á þriðja degi veizlunnar var útboðit turniment á völlu, þá sem nær lágu borginni; þar var mart hoffólk saman komit. Hjálmþér reið fram á milli þeirra, leggjandi sinni stöng til beggja handa, kastandi mörgum riddara til jarðar, farandi sem björn í sauða dúni, ok var enginn svá röskr eða ríkilátr, mikill eða móðugr, at honum þyrði í mót at ríða. Ölvér sér þetta, ok hafði hann áðr margan röskvan riddara af sínum hesti felt;

ríðr hann nú sem snarlegast at Hjálmþér, ok svá hvórr þeirra móti öðrum; mátti þar sjá væna atreið á flugskjótum hestum; leggja þeir nú hvórr í annars skjöld með miklu afli; gekk svá lengi þar til at Hjálmþér reiddist ok keyrir nú hestinn sporum ok ríðr at Ölvé, leggjandi sinni stöng mitt í skjöldinn; enn Ölvér sat svá fast, at sundr gekk hryggrinn hestsins, enn Ölvér kom standandi niðr; fóru síðan heim til borgar ok vóru allir kátir. Enn er Herrauðr jarl býst heim, gekk hann at Hjálmþér ok Ölvé syni sínum ok bað at eitt mundi yfir þá ganga: „vil ek at þit sverizt í fóstbræðralag, svá at ykkart vinfengi haldist“. Hjálmþér kveðst þat vilja; síðan gerðu þeir svó; fór jarl nú heim. Eftir þat lét Hjálmþér afla at smíðum; gerði hann sér einn kastala úti í skógi, ok sem hann var gerr fór hann þangat með hundrað riddara. Hann bað þess sína menn at þeir skyldu læsa kastalann, þá er hann sæti inni. Litlu síðar tók drotning sótt ok andaðist; var haugr gerr ok hún í sett; þetta var konunginnm mikill harmr ok öllum öðrum. Hjálmþér lét veizlu gera eftir móður sína, enn eftir erfit gaf hann öllum góðar gjafir. Var hann oftast í ríkinu, enn reið þess á milli á skóg at skemta sér. Konungr lét setja stól sinn á haug drotningar; sat hann þar nætr ok daga sorg ok harm berandi fyrir *drotningar missi]. Þat bar til einn dag sem sólin var fagrlega skínandi, enn konungr hugsar marga hluti með miklum harmi: sér hann son sinn gangandi með miklum hoflýð, fagrlega prúðum. Hjálmþér gekk fyrir föður sinn ok heilsar honum blíðlega ok mælti: „Skulu þér hér lengi sitja eða þreyja eftir yðra drotningu? Er slíkt ókonunglega gert; vil ek heldr halda burt af ríkinu með yðrum styrk ok fá yðr drotningarefni ok sækja með oddi ok eggju ef eigi vill öðruvís fást“. Konungr

svarar öngu. Hjalmþér stóð lengi fyrir föður sínum ok gekk í burt mjök reiðr.

III. Liðu nú langir tímar, þar til at þat bar til einn dag snemma, er sólin var bjart skínandi, at konunginum varð litit til sjóvarins. Hann sér einn lítinn bát bruna at landi; hann var sem gull álits. Konungr íhugar mjök þessa sýn; tveir menn vóru á skipinu. Konungr reikar þá ofan til strandar með mikilli sturlan ok áhyggju, hugsandi hversu veröldin mátti brigð verða. Hann sá mann einn af skipinu ganga, ok bar konu eina á hendi sér forkunnar væna, svó at konungr þóttist öngva slíka sét hafa at allri kurteisi ok sköruleik, ok rann honum þegar mikill ástarhugr til hennar ok heilsar henni blíðlega. Hún tók vel kveðju hans. Konungr frétti hana at nafni ok tíðindum. „Ek heiti Lúdá“, segir hún, „enn nóg eru yðr tíðindi at segja, herra: minn eiginn konungr, Lúcratus, er réð fyrir borginni Boccía, var helsleginn í sínu eigin ríki af konunginum af Serklandi, sem Núdus heitir; hann er hverjum manni meiri ok sterkari ok at allri atgervi um fram hvern mann í þeirri álfu heimsins. Hann hefir með sér allra handa lýð, blámenn ok tröll ok berserki, risa ok dverga ok annat fítónsandafólk; því mátti enginn menskr maðr í móti honum standa ok hans arma lýð; drápu þeir konunginn, enn tóku borgina í sitt vald; vildi hann hafa nauðgað mér til eiginorðs við sik, enn ek vilda eigi. Næstu nótt eftirfarandi komst ek leynilega á brott ór minni skemmu, ok þræll-inn, er hér stendr; vóru vit til sjóvar gangandi ok hingat í yðvart ríki flýjandi, ok er ek nú komin á yðra náð ok vald, þó með því móti, at ek vil yður eiginkona vera, enn eigi friðla“. Konungr segir: „Hér hefir mjök lukkulega atborizt, því at mín drotning deyði fyrir skömmu, ok munum vit gera þetta at góðu ráði; ok göngum

heim til hallar". Hún játar þessu. Ganga þau nú heim, ok er þegar við brúðkaupi búizt, ok gekk þat fram með heiðri. Ekki var Hjálmþér at veizlunni. Þótti mörgum í ríkinu frúin stórlynd ok ráðgjörn. Leið eigi langt, áðr enn maðr hvarf hverja nótt, ok þótti þetta mörgum kynlegt. Þræl þann, sem drotning hafði þangat flutt, lét hún geyma svína; hann var stórr ok sterkr sem tröll ok þó fríðr sínum; leið nú svá fram í ríkinu langa tíma at ei bar til nýlunda.

IV. Þat var einn dag, sem konungr reikar úti, at Hjálmþér son hans kom til móts við hann með sínum sveinum, ok heilsar föður sínum blíðlega. Konungr tók vel kveðju hans. Hjálmþér mælti: „Til þess er ek hér kominn, herra, at ek vil þér fáið mér fimm skip með vópnum ok mönnum vel búna í herför; vil ek ór landi fara, at afla mér fjár ok frægðar, ok vil ek þetta sé alt búit innan mánaðar". „Þetta vil ek gjarnan gera, minn kæri son", segir konungrinn. Var nú þing stefnt, ok þangat boðit múg ok margmenni. Bað konungr nú son sinn at velja sér svó marga menn sem hann vildi hafa, ok svó skip ok fé. Hjálmþér gerir nú svó, ok velr fimm hundruð liðs, alt ungt fólk. Ok sem þetta var sýslat, stígr Hjálmþér á skip ok þeir Ölvér með öllum sínum mönnum, ok sigla í haf, ok verðr þeim gott til fjár ok frægðar, því þeir brytja niðr blámenn ok berserki enn láta friðmenn alla í náðum fara. Síð um haustit kómu þeir við ey eina, ok lentu í einum leynivóg; þat var seint um kveld; þar var skógi vaxit ok hömrum *lukt*. Þeir gengu á land, Hjálmþér ok Ölvér, ok upp í mörkina á eina hæð; þar sáu þeir skipaflota mikinn öðrummegin undir eynni, ok dreka mjök stóran ok vænan, ok þar með fimtán langskip. Eitt tjald var mikit á landi ok rauk þar mjök. Hjálmþér mælti: „Hverir munu

þessir vera, sem sik halda svá ríkmannlega, ok vil ek fara ok finna þá, ok vita hverir eru". „Ger svó", segir Ölvér. Þeir hlóðu sik nú næfrum alla, ok tóku sér lurka í hendr, ok stumruðu fram at tjöldunum. Þar var reykr mikill; þeir settust nú í dyrnar. Hinir sem inni vóru báðu þá ór dyrunum ganga. Þeir sögðust þat eigi mega fyrir kulda sakir: „enn hvat heitir sá höfðingi", segja þeir, „er fyrir þessum skipastóli ræðr?" „Þit spyrið heimskulega", segja hinir, „eða hafið þit svó í fjarska verit fæddir, at þit hafið öngva fregn haft af vórum ágæta höfðingja; hann heitir Kollr, enn hans bróðir Tóki; þeir eru mestir ágætismenn at öllu; þeir hafa legit í víkingu, síðan þeir vóru tólf vetra, bæði vetr ok sumar; allar skepnur eru við þá hræddar; bæði konunga ok jarla hafa þeir undir sik lagt með herskildi ok þeirra ríki; enn nú skildu þeir í sumar; hélt Tóki til Englands, enn höfðinginn Kollr er nú hér kominn; höfum vér nú verit í hálfan mánuð í þessarri höfn". „Vel hafi þit skemt", segja þeir. Síðan gengu þeir aftr til skipa sinna, ok segja sínum mönnum alt, hvat þeir höfðu fregnat; „skulu vér", segir Hjálmþér, „viðbúning veita í nótt, ok bera fjárhlutu vóra á land, enn grjót í skip, ok veita víkingum rösklegan atróðr á morgun". Þeir gera nú svó. Enn er morgnaði ok sól rann á viðu, róa þeir at víkingum ok gera harða grjóthríð á skip þeirra, ok vakna þeir við vóndan draum. Þeir fóstbræðr höfðu þá unnit fimm skip af víkingum, áðr enn þeir vóru herklæddir. Kollr spyrr, hverir svó ófælilega færi at þeim: „skulu þér hér at vísu viðnám fá". Hjálmþér segir til sín. Tókst nú hörð orrosta; hafði Kollr harðsnúit lið ok mart; ganga hvórirtveggju vel fram, ok fellr mart af báðum, enn þó fleira af liði Kolls, því at þeir fóstbræðr kvistuðu þá niðr sem hráviði, enn þó leið eigi langt,

áðr enn þeir Hjálmþér ok Ölvér höfðu mist sín fjögr skip ok fólkit með; höfðu þeir þá ok drepit hvert mannsbarn af skipum Kolls, utan þat sem flýði til hans á drekann. Ölvér mælti: „Bezt er okkr, fóstbróðir, at prófa hvórt vit getum eigi komizt á drekann til Kolls". „Þat skal vera", segir Hjálmþér; þeir gera svó, ok komust á drekann ok svó hvórr at öðrum; tókst nú enn at nýju harðr bardagi; fellr nú hvórr um annan, þar til at þeir finnast Hjálmþér ok Kollr, ok höggr þegar hvórr þeirra til annars með bitrlegum sverðum, þar til at höggnar vóru hlífar af hvórumtveggjum. Hjálmþér hugsar nú með sér, at svó búit má eigi lengr standa, reiðir upp sverðit ok höggr á hálsinn Kolls, svó aftók höfuðit. Síðan bauð hann þeim, sem eftir lifðu, at vinna sér trúnaðareiða; þeir játuðu því. Þar fengu þeir offjár í gulli ok gersemum. Heldu síðan í haf ok heim til Mannheima í ríki feðra sinna ok sátu í kastalanum um vetrinn.

V. Á vórdögum heldu þeir aftr í hernað ok höfðu nú tíu skip ok drekann Kollsnaut. Þeir herjuðu víða um sumarit ok varð nú lítit til fémuna. Enn er þeir fóru heimleiðis, lágu þeir eitt kveld í einum leynivóg. Þeir sáu sigla inn á vóginn dreka einn stóran ok vænan ok með honum xxx. smærri skip. Þeir lögðu inn á lægit ok kasta akkerum. Þessir létu heldr gildlega. Maðr stóð við sigluna á drekanum, stór vexti ok illr yfirlits ok kvað vísu:

„Hverir eru skálkar,
er skipum ráða,
heldr harðsnúnir,
happalausir?
Vér skulum lýði
lífi ræna
ok með oss öllum
auði skifta".

Hjálmþér heyrði þetta ok kvað:

„Hjálmþèr ek heiti,
hverr spyrr at því,
seggr enn svartleiti
á sæ*var*dýri?
Drepa skulum drengi,
enn dýrgripi eignast,
fúll falsari,
ella flý í burtu“.

„Tóki heiti ek“, segir hann, „eða ertu sá Hjálmþér, er drap Koll bróður minn í fyrra sumar“? „Sá er maðrinn sami“, segir Hjálmþér. „Þat er vel, at vit höfum fundizt“, segir Tóki. „Eigi lasta ek þat er þú lofar svó mjök“, segir Hjálmþér. „Grið skulu standa til morguns“, segir Tóki. Þeir tóku nú á sik náðir. Enn er vígljóst var tóku þeir til bardaga með skotum ok grjóti, enn þegar því linti, tóku þeir til vópna ok börðust alldrengilega. Skorti þar eigi stór högg, er hvórr veitti öðrum; þóttust þeir fóstbræðr öngva kappa slíka hafa fyrri fundit sem þessir vóru. Fell nú hvórr at öðrum. Börðust þeir þennan dag alt til kvelds ok var þá friðskildi uppi haldit; vóru þrjú skip eftir af skipum þeirra fóstbræðra, enn fjögr skip Tóka; leið svó af nóttin. Enn at morgni komanda taka þeir til bardaga. Gekk Tóki allrösklega fram ok vó til beggja handa. Hann hafði stóran atgeir ok sterkan í hendi, ok drap hann á lítilli stundu xxx. manna. Þetta sér Ölvér ok hleypr fram með mikilli grimd; ryðzt hann fast um ok drepr hvórn um annan þar til er hann mætir Tóka ok höggr til hans í skjöldinn ok klýfr hann niðr í gegnum. Tóki spennir þá tveim höndum atgeirinn ok leggr í gegnum skjöld Ölvés ok svó í gegnum báða handleggina á honum ok hefr hann á loft upp ok fleygir honum niðr á þiljurnar svó at hann lá í óviti. Þá

kemr Hjálmþér at ok höggr á höndina Tóka, svó af tók, ok datt atgeirinn niðr. Víkr Tóki sér nú undan ok steypir sér út af borðinu í sjóinn á kaf. Hjálmþér hleypr þegar eftir honum. Syndir Tóki nú undan hart ok rösklega, enn Hjálmþér veitir honum gilda eftirför, þar til at Tóki mæðist; dró þá saman með þeim; réð Hjálmþér þegar á hann ok kómu nú í harðar sviftingar ok löng köf, er hvórr færði annan til grunna, þar til at Tóka mæddi blóðrás ok gekk Hjálmþér af honum dauðum. Syndir hann síðan aftr til skipa sinna; fögnuðu hans menn honum vel ok þóttust hann ór helju heimtan hafa. Bindr Hjálmþér nú sár Ölvés. Þar fengu þeir yfrit góðs í fásénum gripum, gulli ok gersemum; ok innan fárra daga halda þeir heimleiðis. Stýrði Hjálmþér drekanum Kollsnaut, enn Ölvér Tókanaut, ok sátu um kyrt í kastalanum um vetrinn.

VI. At sumri komanda halda þeir í hernað ok herja víða og verðr nú bæði gott til fjár ok mannorðs. Enn er á leið sumarit, kómu þeir at stóru landi; þar sáu þeir vænar borgir ok fagra kastala ok konungs atsetu. Konungr sendir nú menn ofan til strandar ok býðr þeim heim til virðulegrar veizlu; þeir játa því; kómu síðan aftr ok segja konungi; var þá viðbúizt með öllum kosti. Konungr átti sér dóttur harðla væna, er Díana hét; hún kunni allar bóklegar listir. Enn at ákveðnum tíma gengu þeir fóstbræðr heim til hallar með tvau hundruð manna, enn sumir vóru við skip. Konungr gekk móti þeim með fríðri fylgd ok fylgir þeim til hallar. Settist konungr í hásæti enn Hjálmþér ok Ölvér út í frá. Var veizlan hin bezta ok vóru menn glaðir ok kátir. Enn er leið at kveldi, gengu menn til svefns ok sváfu af um nóttina. Enn at morgni gengu menn til drykkju. Var konungr hinn glaðasti

ok allir í höllinni syngjandi cantílenur ok fögr kvæði. Sendir konungr nú eftir dóttur sinni ok kemr hún í höllina með sínum kvennaskara. Leikarar slógu hörpur, gígjur, simphón, psalteríum ok allra handa hljóðfæri. Er þá allmikill prís ok gleði í höllinni. Jungfrúin gekk nú fyrir sinn föður ok heilsar honum kærlega ok öllum öðrum út í frá, ok var jungfrúin glöð ok kát við alla. Sögðu þeir Hjálmþér ok Ölvér konungi mart frá ferðum sínum ok lofaði hann mjök þeirra afrek. Töluðust þau margar kátínur við Hjálmþér ok jungfrúin Díana um daginn, ok gekk svó þessi dagr til kvelds. Hinn þriðja daginn var ok hin sæmilegasta veizla með margskonar skemtun. Síðan vóru borð upptekin; gekk konungr þá út ok spásérar, enn Hjálmþér ok Ölvér gengu til skemmu konungsdóttur. Hún tók þeim blíðlega ok býðr Hjálmþér at tefla, ok svó gera þau, enn Ölvér skemti sér við skemmu-meyjarnar; þær vóru xxx. saman. Þangat gengu þeir hvern dag. Liðu nú margir dagar, þar til at þat var einn blíðan veðrdag, at sólin var skínandi um borg ok kastala, þá sáu þeir ótal skipa utan af hafinu bruna ok lögðu til hafnar ok bera tjöld á land ok reisa sínar herbúðir. Þeir sjá nú hundrað manns frá ströndu ganga ok þangat at sem konungr var. Þeir Hjálmþér ok Ölvér vóru nú nær staddir konunginum. Þessir menn gengu fyrir konung ok einn af þeim talar svó: „Konungsson af enu mikla Serklandi, er Núdús heitir, sendir yðr, herra, sína kveðju. Honum er sagt, at þér eigið eina væna dóttur, er Díana heitir; hann vill fá hennar með heiðri ok æru, enn ef þér vilið ei gifta honum jungfrúna, býðr hann yðr til bardaga á þriggja nátta fresti; væntir mik at þér missið þá með lítinn heiðr yðvart ríki ok dóttur ok þar með lífit, ok er yðr eigi ráð at hætta til þess, ok látið hann heldr fá sinn

vilja". Konungr mælti: „Seg þat aftr þínum herra, at ek gifti honum eigi mína dóttur; skal ek koma með þann her sem ek fæ til á þessa völlu at ákveðnum degi". Gengu sendimenn nú í burtu ok sögðu konungssyni hvar komit var. Lætr konungr nú skera upp herör um alt sitt ríki ok býðr til sín múg ok margmenni, ok kom þar ógrynni hers; var nú viðrbúningr veittr af hvórumtveggjum.

VII. At ákveðnum degi fylkja hvórirtveggju sínu liði til orrustu ok eftir þat eru lúðrar þeyttir ok síga nú saman fylkingar með ópi ok eggjan. Fljúga fyrst allskonar skotvópn svá hart, at þar af varð mikill gnýr; særðust sumir hér af enn sumir fengu bana. Eftir þat biðr konungr þá Hjálmþér ok Ölvé at slá upp herópi ok geisast svó á þá með höggorrustu ok brugðnum sverðum. Þeir fóstbræðr vóru nú á sínum hestum ok með þeim mikil riddarasveit. Hvórrtveggi þeirra hafði bitrlegt spjót sér í hendi ok slá nú upp herópi ok hlaupa svó fram á þá, ok tekst nú orrusta hin snarpasta.. Ok svó hart gengu þeir fram Hjálmþér ok Ölvér ok þeirra menn at fylkingu konungssonar, at hún bognaði fyrir ok fell í þeirri svipan mart manna af Núdus. Sér hann nú, at hans fylkingar eru á bak gengnar, enn lið hans mart fallit; fyllist nú mikilli reiði ok kallar á sína menn, berserki ok blámenn, ok biðr þá í móti snúa konunginum ok hans arma lýð ok biðr þá ekki hræðast. Þeir gera nú svó ok ganga fast fram með ópi miklu ok illum látum. Kom nú á þá berserksgangr, höggva ok leggja, berja ok basta konungsins hirð til beggja handa ok ganga í gegnum fylkingarnar. Flýr nú mart undan þeim af konungsmönnum fyrir hræðslu sakir. Þetta líta þeir Hjálmþér ok Ölvér ok

þeirra lið, at konungsmenn flýja margir, enn sumir drepnir; þeir snúa nú í móti þessu illþýði ok varð þar mikill atgangr, enn svó lýkr, at þeir geta drepið alla berserki konungssonar ok blámenn, enn rétta aftr fylkingararminn. Þetta sér Núdus konungsson, at hans hetjur eru feldar í strá, ok sér nú atferð þeirra Hjálmþérs ok Ölvés, ok hyggr nú at hann muni þar koma í fulla raun, enn treystir þó vel afli sínu ok hamingju; því knýr hann hest sinn sporum ok ríðr nú geyst fram í móti þeim Hjálmþér ok Ölvé, ok sem Hjálmþér sér hversu þessi ríkiláti konungsson ríðr sem fugl fljúgi, þykist hann skilja, at hann vill á hans fund; því býr hann sik hraðlega á móti honum, skekr sitt spót grimmlega ok keyrir hestinn sporum ok ríðr sem snarplegast í móti Núdus, og lagði hvórr þeirra í annars skjöld, enn svó sátu þeir fast at hvórrgi bifaðist í sínum söðli, enn báðar burtstengrnar brotnuðu ok flugu brotin aftr yfir höfuð þeim. Þeir taka nú til sverða sinna ok höggva hvórr til annars af miklu afli ok fimleika. Enn sakir þeirra ógurlegu bresta, er urðu af þeirra höggum, þá æddust hestarnir undir þeim, svó at þeir máttu eigi höggum við koma, ok fyrir þat stigu þeir af hestunum ok fengu sínum skjaldsveinum, ok gengu nú saman ok börðust svó ákaflega, at við himin var at sjá lauf af hjálmum þeirra ok parta af skjöldum, enn sverðin sýndust fjögr senn á lofti. Enginn þóttist sét hafa frægilegra víg né afbragðlegra af tveimr mönnum, ok svó lengi börðust þeir at öllum þótti undr, at þeir vóru eigi fyrir löngu sprungnir af harðri sókn ok mæði. Hjálmþér leiddist nú at svó standi lengr, at engin umskifti yrði þeirra í milli; því reiðir hann sverðit með miklu afli ok reiði, enn sakir þess at skjöldrinn var allr höggvinn af Núdus konungssyni, fekk hann eigi

hlífum við komit; því kom höggit í hjálminn, ok var svá mikit at hann klofnaði, þar með búkrinn ok brynjan svó at beltisstað nam; fell. Núdus nú dauðr til jarðar. Lofuðu allir Hjálmþér fyrir þau afreksverk, sem hann hafði þar unnið í sinni framgöngu, ok einna mest sjálfr konungr. Flýr nú allr herrinn til skipa ok sigldu í burt. Enn konungr ok hans menn fengu þar yfrit góðs. Gekk nú allr lýðr heim til hallar ok vóru mjök kátir ok glaðir. Var nú veizla hin bezta ok ekki af sparat þat sem búkrinn kunni at beiða. Enn at liðinni veizlunni gekk Hjálmþér ok Ölvér til skemmu konungsdóttur. Hún tók þeim blíðlega ok bauð at sitja. Hjálmþér kveðst nú vilja halda þeim. Hún gengr þá í burt ok kemr aftr ok mælti: „Hér er eitt tjald, Hjálmþér, er ek vil gefa þér; sú náttúra fylgir því, at þér má ekkert granda meðan þú ert í tjaldinu. Þat er alt með gulli gert ok gimsteinum sett“. Hann þakkar henni gjöfina kærlega ok mintist við hana, enn hún grét sárlega. Gekk Hjálmþér síðan til skipa, ok var konungr þar fyrír; gaf hann þeim fóstbræðrum góðar gjafir, ok mæltu til vináttu með sér ok skildu með kærleikum. Stigu þeir síðan á skip ok heldu heim ok sátu í kastalanum um vetrinn. Ekki hafði Hjálmþér enn sét stjúpu sína.

VIII. Þat var einn morgun, at þau konungr ok drotning lágu í sæng sinni. Þá mælti hún: „Herra, áttu öngvan erfingja“, segir hún. („Á ek hann“, segir konungr, „ok heldr einn kastala á skógi“). „Því skal hann eigi heima vera hjá yðr“, segir drotning. „Ekki vill hann í vórri höll drekka“, segir konungr, „enn þó berr hann list ok prýði af öllum mönnum“. „Sjá verð ek“, segir drotning, „þennan mann“. Þau hættu svó talinu. Þat bar til einn dag, at frúin skipaði öllum sínum meyjum út á skóg at henda sér epli ok aldini.

Þær gerðu svó. Drotning fór nú til skógar ok eigi fyrr léttandi enn hún kom at kastalanum ok gekk þegar inn at læstum lokum. Hjálmþér sat yfir borðum ok hans hoflýðr: hann sá konuna innganga, ok þóttist kenna af annarra manna frásögn stjúpmóður sína; hann sprang þegar fram yfir borðit ok kveðr hana blíðlega ok setr hana í kné sér. Hún tók honum vel ok var væn yfirlits, lítandi til hans með blíðri ásjónu ok svó til hans talandi: „Minn sæti son, hvat veldr því at þú vilt ei heima vera með þínum feðr? er þar þó skemtilegra at sitja enn hér í kastalanum fjarri öðrum mönnum". Hjálmþér mælti: „Meir berr þar til æska mín enn illvili". Hún mælti: „Mikit er af sagt þinni list ok prýði, ok vel væri sú kona gift, er slíkan ætti". Hann kvað þat eigi vera. Enn er þau töluðust þannig við, gengu allir út af kastalanum ok einnig Ölvér. Drotning mælti þá: „Hvernig lízt þér á mik? eðr þykir þér ek ekki kvenleg ok kurteis?" Vel víst", segir Hjálmþér. Hún mælti: „Hví mun mér svó veraldarhjólit valt orðit? hálfu betr hefði okkr saman verit hent, ungum ok hreinlegum ok til allrar náttúru skapfeldlegum, ok heyr, minn sæti ok kæri, þat má ek þér satt segja, at þinn faðir hefir mér enn ekki spilt, af því at hann er maðr örvasa ok náttúrulauss ok til öngra hvílubragða færr. Enn ek hefi mjök breyskt líf ok mikla náttúru í mínum kvenlegum limum, svó at þat er mikit tjón veröldinni, at svó lystilegr líkami skal spenna svó gamlan mann sem þinn faðir er, ok mega eigi blómgast heiminum til upphalds; mættum vit heldr okkra ungu líkami saman tempra eftir náttúrlegri holdsins girnd, svó at þeir mætti fagrlega ávaxtast, enn vit mættum skjótt gera ráð fyrir þessum gamla karli, svó at hann gerði okkr önga skapraun". Hjálmþér mælti: „Er þér

þetta alvara". sagði hann. „At vísu", segir hún. „Þat ætlaða ek", sagði Hjálmþér, „at þú mundir ill vera, enn aldri svó svívirðileg sem nú veit ek at þú ert". Hann hratt henni þá fram yfir borðit ok sló á hennar nasir, svó blóð fell um hana alla. Lúdá mælti: „Vit skulum finnast í annat sinn". Hann kvað hana því eigi fegna skyldu verða. Sökk hún þá þar niðr í jörðina sem hún var komin. Litlu síðar kómu menn hans inn í kastalann. Hjálmþér var þá svó reiðr, at hann mátti við öngvan mann tala. Ölvér gekk nú at honum, ok bað hann ekki reiðan vera: „hefir stjúpa þín þessu ollat?" Hjálmþér segir at þetta var satt. Einn dag vill Hjálmþér ríða út á skóg ok svó gerir hann, enn sem þeir eru ríðandi um skóginn, þá sáu þeir kind eina stóra ok væna ok ríða nú þar eftir, enn hún leitar undan. Þeir hlaupa nú þar til at þeir sprengja bæði essin; þá hlaupa þeir báðir á fæti eftir dýrinu; urðu þeir nú skjótt móðir ok kasta öllum klæðum af sér nema skyrtum ok línbrókum. Síðan dró upp skýflóka mikinn af útnorðri með regni ok krapa; gekk þat alt til nætr; síðan gerði á frost mikit með kulda ok fjúkhríð, ok vóru þeir þá komnir í fjallshlíð eina. Ölvér mælti: „Kalt tekr mér at gerast, fóstbróðir". Hjálmþér bað hann eigi æðru mæla. Var þá langt af nótt. Litlu síðar varp af illviðrinu; vóru þeir þá komnir at helli stórum. Ölvér mælti: „Mikit er ek af mér kominn". Hjálmþér segir: „Hér munu vit láta fyrirberast". Þeir gengu nú inn undir hellis bergit. Þar sáu þeir einn stóran jötunn sitja við elds glór; reykr var mikill í hellinum; eitt kvikindi sat við eldinn ok kló jötninum með ullarkömbum, enn hann otar höfðinu í móti ok skældi sik alla vega. Jötunninn mælti: „Skinn-

húfa, far þú út ok gæt at glögglega ok gegn ræðu minni ok vit hvórt þú sér til öngrar nýlundu; þykir mér þeir menn seint koma, sem systir mín lofaði at koma skyldu í kveld, því at ek vil skjótt fara til náða; gerist ek heldr kveldsvæfr". Hún ferr út ok sá þá fóstbræðr. Hún brá yfir þá hendi sinni ok bað þá verða at *hönum tveimr ok fljúga upp í hellinn. Svó varð. Þar var heitt. Litlu síðar fór hún inn. Jötunninn mælti: „Sér þú nokkut til nýlundu, fóstra", segir hann. „Fjarri er þat", segir hún. „Svík þú mik eigi", segir hann. „Svó mun ek gera", segir hún. Síðan leggst hann niðr ok hrýtr fast. Skinnhúfa mælti við *hanana: „Verði þit nú at mönnum", segir hún. Þá varð þat. Hjálmþér mælti: „Þér eigum vit lífgjöf at launa". „Hvat viltu nú at hafast", segir hún. „Drepa jötunninn", segir hann, „ok launa svó stjúpmóður minni sendiförina þá sem hún hefir sent okkr hingat til hans". „Hraustr maðr ertu, Hjálmþér", segir hún. Þau fóru nú inn í hellinn. Sverð hekk yfir sæng jötunsins búit alt með gull. Hún mælti: „Ekkert sverð bítr á hann nema þetta". Hjálmþér gat náð undir klótina á því ok rann þat þegar ór slíðrum, enn Skinnhúfa henti þat ok mælti: „Heppin varð ek oss enn; nú mun ek vita hvórt hann sefr". Hún tók nú tré mikit ok lamdi um sængina. Hún mælti: „Þat vil ek, Hjálmþér, at þú stigir upp á stokkinn ok leggir djarflega á hann", ok stökk síðan upp yfir sængina. Hjálmþér gerir nú svó, ok leggr til jötunsins ok hleypr á klótina, svó at í *beðinum stóð. Jötunninn mælti: „Sveikstu mik nú Skinnnefja"; sprettr hann nú upp ór sænginni ok lætr sópa greiprnar um hellinn ok litlu síðar dó hann. Hjálmþér tók sverðit ok leizt vel á. Skinnhúfa mælti: „Ekki skalt þú eiga þetta sverð, Hjálmþér, því þat skal Ölvér eiga, enn láttu ekki lítit

í standa ef þú sér betra sverð, því svó berr þat af öðrum sverðum sem þú berr af öllum konungasonum". Hún gaf þeim marga fáséna gripu ok bað þá nefna sik á nafn er þeir þyrfti lítils liðsinnis við". Síðan fóru þeir heim ok urðu allir þeim mjök fegnir.

X. Um vórit halda þeir í hernað ok drepa niðr blámenn ok berserki enn fá yfrit góðs í skipum ok klæðum, gulli ok silfri. Enn at hausti halda þeir heimleiðis. Þeir kómu at ey einni stórri síð um kveld; hún var mjök skógi vaxin; þeir tjölduðu þar á landi ok hlutuðu um vöku, ok hlotnaðist Hjálmþér at vaka. Enn sem þeir vóru sofnaðir, gekk hann frá tjaldinu á hæð nokkura; stóð hann þar lengi ok sást um ok heyrði mikinn gný með stórum brestum í skóginn, svó at eikrnar bifuðust enn limarnar hristust; ok litlu síðar kom fram ór mörkinni eitt fingálkn mikit ok gildlegt; þat hafði hrossrófu ok hófa ok fax mikit; augun vóru hvít, enn munnrinn mikill ok hendr stórar; brand hafði hún í hendi sér vænan, svó öngvan hafði hann slíkan sét. Hún gekk at honum, enn hann stóð fyrir. Hann hugsar nú með sér, at ekki skuli honum orðfall verða, ok kvað vísu:

„Hver er sú dóttir
*er drjúgt um nætr]
flanar ok flöktir
með fíls hala;
ólík þykki mér þú
öðrum vífum,
eðr hvaðan kom
*hundvís mær?"]

Hún kvað:

„Vargeysa ek heiti,
heyr þú, vísis son,

viltu at ek þér í sinni sé?
allra þinna ek tel þik
þurfa munu
vel trúrra vina".

Hann kvað:

„Hræðileg muntu þykkja
hölda liði,
þótt þú oss í sinni sér;
öngvan vór seggja
þú svíkja munt,
vösk vinkona
*vór hin harðleita".]

Hún mælti: „Eigi mun ek heldr svíkja mína vini enn þú þína; má ek vera þér í sinni, þó ek fari ekki með þér". Hann mælti: „Átt þú brand þann, er þú ferr með". „At vísu", segir hún. „Viltu selja mér", segir hann. „Eigi víst", segir hún. „Þú munt vilja gefa mér brandinn", segir hann. „Með engu móti", segir hún. „Skal ek með öngu móti fá hann", segir Hjálmþér. „Eigi skal þat þó, karlmaðr", segir hún; „þú skalt kyssa mig". Henni varð þá ljóð á munni:

„Sæk þú Snarvendil,
sigr mun honum fylgja,
horskr ef vilt, hilmir,
þér í hendi bera;
koss vil ek af þér
klénan þiggja,
þá muntu mímung
mér ór hendi fá".

„Eigi vil ek kyssa trjónu þína", segir Hjálmþér, „enda verð ek fastr við þik". „Hætta verðr á þat", segir hún, „ok ráð sjálfr". Hann snýr nú í braut frá henni. Kom honum nú í hug, hvat Skinnhúfa hafði sagt; víkr nú aftr ok kvað vísu:

„Kanntu mjúklegar,
*mær hin harðleita,
leika at hrækerti
enn höldar aðrir sex];
sel þú mér sárloga,
svei*ptan* orms dýnu;
fúss em ek fljóð at kyssa,
ferr sem má jöfri“.

Hún mælti: „Þá verðr þú at réttu at hlaupa á háls mèr í því ek kasta upp brandinum, enn ef á þik kemr, er þat bani þinn“. Hún kastar upp sverðinu; í því hljóp hann á háls henni ok kysti hana, enn hún henti brandinn fyrir aftan bak honum. Hún réttir nú at honum sverðit ok kvað vísu:

„Sel ek þér Snarvendil,
sigr mun honum fylgja,
iöfurr hinn stórráði,
um þína aldrdaga;
snúist þín ævi
æ til sigrs ok gæfu,
hvar sem þú heim kannar,
hugr er í kóngs barni“.

Ok enn kvað hún:

„Ver eigi svó ærr, maðr,
at þú Ölvé grandir;
ver honum heill, hilmir,
hann er þér hollr, fylkir;
láttu illmæla
aldri lund þína;
vel þér vini tryggva
ok ver þeim hollr, dróttinn“.

„Eru engin álög á brandinum“, segir hann. „Eigi nein“, segir hún, „enn þó mun ek nú áleggja: þat hit fyrsta víg, er þú vilt vega, mun brandrinn ei bíta; í annan

tíð skaltu þat hvergi fá hrært; gangi þér nú alt til sigrs ok tíma, ok nefn nafn mitt ef þú þarft lítils við, ok heim muntu nú ætla". Hann kvað svó vera, „ok legg mér ráð hvern mann ek skal hafa af hirð föður míns at sumri". Hún kvað svó vera skyldu; „enn mjök ólíklegt mun þat þykja ungum píkum, at ek kunni ráð nokkurt eðr at hinn æðsti konungsson beiddi mik ráðs, enn þó mun þér þetta örugt vera. Heima muntu vera í vetr, enn at vórdögum muntu ganga fyrir föður þinn ok bið hann liðs; hann mun segja at hann hafi fátt lið til aflags; bið þú hann þá at fá þér einn mann; hann mun Björn undan skilja, enn hvern muntu þá kjósa"? Hann kveðst föður sinn hafa vilja. „Ekki skaltu hann hafa", segir hún. Varð henni nú ljóð á munni:

„Kjóstu þann þræl
af þengils liði,
er gefr svínum soð;
mun þér ei maðr
af mildings hirð duga,
ef þér glapvígr gerist".

Síðan skildust þau. — Ölvér vaknar nú, ok sér at Hjálmþér er í burt; hann klæðist sínum herklæðum, þrífr saxið ok gekk frá tjaldinu. Hann sá hvar Hjálmþér gekk mjök reiðr. Hjálmþér hóf upp brandinn enn hann varð svó þungr, at hann fell niðr fyrir fætr honum. Ölvér gekk í móti honum ok mintist við hann ok mælti: „Slíkt gera at nætrferðir þínar, fóstbróðir". Hjálmþér mælti: „Þökk mína hafðu, Vargeysa, enn varstu mér heil í ráðum". Um morguninn halda þeir heim ok sátu í kastalanum um vetrinn.

XI. At vórdögum býr Hjálmþér sinn skipaflota, ok er hann var albúinn, gekk hann inn fyrir föður sinn biðjandi hann at fá sér menn nokkura. Enn konungr

kvaðst eigi til hafa. Hjálmþér mælti: „Fá mér þá einn mann ór hirð þinni“. „Haf þú hvern er þú vilt, nema Björn“, segir konungr. Hjálmþér gekk til svína húss ok sá þar mann liggja, mikinn ok stóran ok furðu sterklegan, í loðkápu. Hjálmþér stakk á honum spjótskaftinu ok mælti: „Statt upp, þræll“. Hann liggr eigi at síðr. Hann lét koma við hann skaftit í annat sinn. Hann sezt nú upp ok mælti: „Mun eigi vera sem mér sýnist, at þetta sé konungsson“. Hjálmþér bað hann upp standa ok fara með sér. Hann mælti: „Gera skal ek þér kost á því; ek vil einn öllu ráða, enn þú öngu“. Hjálmþér mælti: „Þat vinn ek til öngra muna, eðr hvat heitir þú?“ Hann mælti: „Því skaltu ráða, enn Hörðr heiti ek“. Hjálmþér gekk nú í burtu. Hann kom at einum bekk, enn hjá bekknum sá hann Vargeysu standa. Honum kom þá í hug hvat hún hafði mælt. Hann gekk nú aftr inn ok mælti: „Stattu upp, þræll, ok gakk með mér ok ráð einn öllu“. „Ek mun til skipanna ganga“, segir Hörðr, „enn þú munt finna stjúpmóður þína“. Hjálmþér gekk nú heim at höllinni; hann sá stjúpmóður sína ganga á móti sér. Honum leizt hún ei frýnleg, því hún var þá bæði ljót ok leiðinleg í yfirbragði ok óförg at ásjónu. Hún mælti: „Vel er þat, Hjálmþér, at vit höfum hér fundizt“. Hann kvaðst þat ei lasta kunna. Hún mælti: „Nú skal ek launa þér pústrinn, er þú gaft mér áðr fyrir löngu; þat legg ek nú á þik, at þú skalt hvergi kyrr þola, fyrr enn þú sér Hervöru Hundingsdóttur, nema á skipum þínum eðr í tjaldi“. Hjálmþér mælti: „Ekki skaltu fleira mega á mik leggja, því kjaftr þinn skal opin standa, enn þat þykir mér einkis vert at þreyja eftir eina kóngsdóttur. Hamrar hávir standa niðr við skipa lægit; þar skaltu á stíga sínum fæti á hvórn hamarinn,

enn fjórir þrælar föður míns skulu kinda eld undir þér, enn við ekki skaltu lifa nema þat sem hrafnar færa þér þar til ek kem aftr". Síðan gekk hann til skipa ok var þá bryggjum kipt. Hann hafði fimm skip ór landi, skipuð völdum drengjum, ok halda síðan burtu. Í fyrstu máltíð bað Hjálmþér Hörð at sitja hjá sér; hann kvað ekki svó vera skyldu. „Einnsaman vil ek mat eiga", segir hann, „enn sofa í rekkjugólfi þínu". Hjálmþér bað hann því ráða.

XII. Halda þeir víða um sumarit ok gott varð þeim þá til fémuna, enn fengu sjó stóran ok storma mikla ok gekk mjök á skipin. Enn um haustit kómu þeir at stóru landi einu; þar var fjörðr mikill ok stór fjöll. Hörðr mælti: „Hér munu vér á landi sofa". Enn Hjálmþér mælti í móti. Hörðr kvaðst ráða vilja, ok var nú svó gert. Var tjald á land borit. Hjálmþér mælti: „Illa skal við þá gera sem á skipunum eru". „Eigi skal þat", segir Hörðr. Hann gekk út á skipin ok bað menn gera sik glaða ok gaf þeim vín at drekka, ok sinn grip gaf hann hverjum þeirra. Urðu þeir skjótt druknir. Hörðr tók mat ok öl ok gekk á land. Hjálmþér gekk burt ór tjaldinu, er þeir vóru sofnaðir, ok fram með sjónum. Fjall mikit ok hátt stóð við sjóinn, enn í miðju fjallinu leit hann standa tröllkonu stórskorna. Hún hafði gullofin dúk á knjám sér ok kembdi sér með gullkambi. Brunnr var niðr við sjóinn; hún tók hendinni í hann ok þvoði með hár sitt. Hjálmþér kvað vísu:

„Hvert er þat barn,
er í bergi sitr
ok sér of konungs *kund?*
öngva veit ek þér
ámátlegri
alda fyr jörð ofan".

Hún greiddi hárit frá augum sér ok varð reið við orð hans ok kvað: „Illa kveðr þú til mín“:

„Því munt þú,
hinn ungi, fyrst hafðr
á seyði af seggjum þínum;
með gullofnum dúki
má sú hin horska mær
þerra sína ljósa lokka“.

„Illa er sá dúkr kominn er þitt hár þerrir ok at þínum glyrnum gengr“, segir Hjálmþér ok kvað:

„Mun þik snerta
Snarvendill fyrr
enn þú á seyði
setir kóngsarfa;
hendr muntu missa
ok hátt æpa,
svó munum vit skilja,
skauð hit aumasta“.

Hún segir hann mart orð tala mjök svívirðilegt: „væri hitt tilheyrilegra mannslegum manni at hafa aðra viðleitni við unga píku ok hreinlega enn tala illa; þykir mér þú efnilegr maðr, enn mér væri forvitni á at prófa ungan mann ok missa minn meydóm“ et cetera. Hún seildist nú hendinni í brunninn. Hjálmþér brá þá sverðinu ok hjó af henni hendina í úlfliðnum. Hún rak upp skræk mikinn ok leit á stúfinn ok mælti: „Lítit frama verk er þetta einum ágætum konungssyni, at leynast at mér, enn þat hlægir mik, at hefnt muni þessa verks, ok mun eigi all-langt til. Þá kvað hún:

„Víst gleðr mik eitt,
þótt vitir eigi,
iöfurr hinn ógndjarfi,
hvat um er at vera:

munu systr mínar
at nám gera (!)
út á herskipum
alla menn þína".

Hjálmþér sá nú á sjóinn út ok leit níu tröllkonur svó stórar ok illilegar at öngvar þóttist hann sét hafa þeim líkar. Þær höfðu rifit í sundr öll skipin enn drepit mennina ok borit góðs alt á land upp ok vóru eigi litl- ar í starfinu. Þær höfðu heyrt öll orð þeirra Hjálm- þérs ok Ýmu. Þær hétu svó: Hergunnr, Hremsa, Nál, Nefja, Raun, Trana, Greip, Glyrna ok Margerðr hin níunda. Hún hafði kryppu stóra á herðum ok bar hana hærra enn höfuðit. Hún hafði ok eitt auga, ok stóð þat í miðju enni, ok var kerla eigi hreinleg yfirlits. Hún gekk fyrir þeim systrum. Hún hafði nef af járni ok klær, ok tvær tennr álnar langar stóðu fram ór kjafti kennar, enn vörin, hin neðri, tók ofan á bringu. .Það sá Hjálmþér, at hún mundi mega kunna at gefa gildan koss, ef hún kynni svó fyrir sik at koma vörinni sem hún var stór til. Þær vóru stuttklæddar píkurnar ok göptu kjöftunum, enn skóku höfuðin. Hjálm- þér hugsar nú at honum muni eigi svó búit duga; rann hann þá ór fjallinu ok ofan fyrir tjalddyrnar. Þá kvað Hergunnr vísu:

„Tólum ek treysti
at tala við höfðingja,
þó numu vér lítit
þat til vegs horfir;
skulum til skála
skunda göngu
ok menn mildings
merkja á seyði".

Þær ganga nú síðan at tjaldinu. Hjálmþér hugsar nú,

at hann má eigi einn við þeim öllum. Hann kvað vísu:

„Vak þú, Ölvér,
ef þú vilt víf sjá;
þú ert kossmildr
við konur harðla.
*Hér bíða þín
Hundings meyjar];
hverf þú við,
ef þér hugr dugir".

Ölvér mælti ok kvað vísu:

„Hvat skal kalls þetta,
hvat þarftu mér bregða,
kóngr, um kvensemi
kátr um miðnætti?
enn hverja hýsnöppu
sem þú á heiðum finnr,
viltu at þér í sinni
séu allar".

Hörðr mælti: „Stöndum upp, nokkurs þykir Hjálmþér nú um vert". Hergunnr kvað vísu:

„Held ek upp hrömmum,
hér mátt, jöfurr, líta
hendr Hergunnar;
hefi ek negl óskorna;
rifna mun þín ólpa
ef vit, iöfurr, finnumst;
þér skal eigi kyrt klappa,
kóngr enn suðræni".

Hann kvað:

„Gakk þú framar hóti,
fyrr enn þú á seyð dragir
þennan þjóðkonung,
þú, flagðit hrausta;
ettu fram járnhrömmum,

ef þú afli treystir,
drósin dulreifa,
enn ek mun dvergasmíði".

Í því kómu þeir út. Margerðr ræðr þegar á Ölvér, enn hann tók fast á móti. Hún kvað vísu:

„Illa leikr þú, Ölvér,
eigi ert hæfr vífum;
má eigi fang festa
á fylki vel bornum;
eggjar 'ru eitrblandnar,
æfr er döglingr,
oddar alblóðgir,
eigi munu vér sigrast".

Hörðr barðist við systrnar vij; þær vóru fullfimar ok höfðu stórar skálmir ok sóttu nú ákaft at Herði, enn hann varðist vel ok drengilega ok þar kom um síðir at hann drap þær allar, enda var hann þá mjök móðr. Hjálmþér átti mjök harðan leik við Hergunni; hafði hún vænt sverð í hendi ok varðist allskörulega. Hjálmþér þóttist aldri í meiri mannraun komit hafa sakir mjúkleika hennar, því hvar sem hann hjó til hennar, kom jafnan saxið fyrir, þar til at hún mæddist; bárust þá sár á hana, svó at hún flakti öll sundr í sárum. Hún kallar þá hátt ok kvað vísu:

„Hvar ertu, Margerðr,
mær hin öflgasta,
vinnr þú sigr lítinn
á siklings liði;
hryggr er hálflaminn,
enn herðar brotnar,
sterkr er stafnbúi,
stökkva mun nú verða".

Þær bregða nú við hart ok rösklega ok hleypa hver sem meira mátti ok stígu meyjarnar nú stórum; enn

Hörðr snýr eftir þeim upp undir fjallit. Hergunnr sneri þá í móti honum. Hann hjó til hennar, svó at af fauk höfuðit. „Högg þú allra manna armastr“, segir Margerðr, „mína systur“. „Skamt mun þér til slíks“, segir Hörðr. Hann slæmdi nú til hennar sverðinu ok tók hana sundr í miðju. Veik hann þá aftr, enn þeir Hjálmþér ok Ölvér vóru komnir inn í tjaldit ok sváfu. Hörðr gekk til sjávar ok safnar saman skipviðunum; þar af gerði hann hús lítit ok fagrt, þar sem mest skúttu björgin; þangat bar hann mat ok öl ok öll þeirra þing. Síðan gekk hann aftr (til þeirra). Standa þeir fóstbræðr nú upp; síðan ganga þeir fram með sjónum. Hjálmþér sá nú hús upp undir bjargit. Hann mælti: „Hús er þarna“. Hörðr mælti: „Mun hún eigi þar Hervör, sem þú þreyr oft?“ Þeir ganga nú í húsit inn. Þar var sæng ein, ok tafl, könnur á stóli ok ker með. Hörðr gaf þeim at drekka. Enn er þá varði sem minst gekk hann út ok skeldi húsinu í lás. Hjálmþér mælti: „Sveikstu mik nú, Hörðr“, segir hann, „ok er ilt at eiga þræl at einkavini“. Hann vildi nú höggva upp húsit, enn sverðit beit ei heldr enn hann höggvi í stein. Sátu þeir þar nú um kyrt glaðir ok kátir.

XIII. Þat er frá Herði at segja, at hann gekk fram með sjónum; hann sá einn stein stóran í fjörunni fyrir sér ok gat þar í. Hann litast nú um ok sér hvar risi ógurlegr kom fram á bjargit ok var eigi allsveinslegr yfirlits, því öngvan þóttist Hörðr slíkan sét hafa fyrir vaxtar sakir ok stórskorins höfuðs. Hann hafði háva stöng í hendi ok fram ór fleinn tvíeggjaðr, fjögra álna langr. Hann tók niðr at fjörunni, er hann stóð á bjarginu. Jötunninn mælti: „Hvar eru kögurbörn þau er drepit hafa *dætr mínar? gangi þeir nú fram, ef þeir þora, því slíkt vóru hin *mestu níðingsverk, svó ungar

sem þær vóru, því at sú var ellst, sem var tólf vetra". „Hér em ek kominn", segir Hörðr, „ok drap ek þær dætr þínar ok vóru þær *miklar fyrir sér, enn nú vil ek leita til þín halds ok trausts". Risinn mælti: „Vel sé þér vinr; ver vel kominn ok far hingat". Hörðr mælti: „Þat má ek með öngu móti; mér hefir ávalt ilt verit, enn nú batnar lítit um síðan í vór, at ek fór á sjóinn með þeim *fóstbræðrum; réttu heldr ofan stöng þína, ok mun ek taka þar í". Risinn mælti: „Þat má ek vel gera, því at þau ein skip hafa hér at komit, at ek hefi rekit fleininn í gegnum þau ok dregit þau svó upp at mér ok mun ek nú rétta stöngina ofan at þér". Hörðr tók í sem hann gat, enn á meðan þeir höfðu viðtalazt, hafði hann reyrt sik um stein með kaðli sterkum. Jötunninn rykkir nú á mjök fast. Hörðr mælti: „Tak þú á betr ok fastara, félagi; eigi er ek allléttr". Jötunninn reiddist nú ok rak fleininn niðr í bergit ok rykkir nú svó fast til, at hann sökkr niðr í hamrana alt at brókarlinda, enn Herði var við því búit, at hann mundi slitna í sundr. Jötunninn mælti: „Þú ert þungr jafnlítill". „Vanhertr ertu þá", segir Hörðr. Jötunninn herðir sik nú því meir ok brauzt um, þar til at upp losnar steinn sá, er Hörðr hafði reyrt sik við ok hóf hann upp frá jörðu eigi minna enn sex faðma; í því slapp af fleininum, enn jötunninn datt á bak aftr, enn Hörðr ofan með steininum ok lá lengi í óviti, enn er hann raknaði við mælti hann: „Mjök ertu ósterkr, jafnstórr, ok kant lítit, at þú kemr mér eigi upp á bjargit; hafðu nú mín ráð ok gakk niðr í tóna í bjargit ok lút vel áfram". Risinn lét at þessu ginnast ok ferr ofan í tóna ok teygir hálsinn, enn réttir stöngina ofan fyrir bjargit. Hörðr tók nú í stöngina ok kipti risanum ofan fyrir bjargit, svó at brotnaði í honum hvórt bein. Enn

Hörðr leysti sik ok rann þegar upp bjargit ok kom at helli stórum. Þar var Ýma fyrir ok fell til fóta honum; hann gaf henni líf; þar var hann um vetrinn. Var í hellinum nóg gull ok silfr ok klæði góð, er jötunninn hafði átt, enn at vóri komanda tók hann þar hring mætan ok skikkjur ok sjóð stóran af gulli. Ýmu gaf hann hellinn í vald ok góðs alt er þar var inni. Hún bað hann nefna sik ef hann þyrfti liðs við. Hörðr gekk nú heim ok lauk upp húsinu. Hjálmþér varð honum feginn; eigi hafði hann munat til Hervarar á þeim vetri. Skip hafði Hörðr gert þeim um vetrinn, enn um vórit létu þeir í haf. Skipit fór jafnhart móti vindi sem undan. Um haustit kómu þeir at landi stóru. Hjálmþér mælti: „Hér vil ek á land ganga“. Hörðr kvað svó vera skyldu. Þar sáu þeir hallir stórar ok vænlegar. Hjálmþér mælti: „Þetta munu vera hallir Hundings konungs“. „Þú segir satt“, kvað Hörðr. Þeir gengu upp at höllinni; hún var ger með stein. Í einum stað sáu þeir hús eitt með rautt gull. Hjálmþér mælti: „Þetta mun vera turn Hervarar“. Hörðr kvað svó vera mundu. Þeir ganga undir turninn; þar sáu þeir sitja mey svó væna, at öngva höfðu þeir slíka sét. Hár hennar var gulli líkt enn ásjána hvít sem snjór, holdit skært sem lilja, augun fögr sem carbúncúlus, enn kinnar líkt sem rósa. Hörðr gekk at henni ok kvað vísu:

„Hver ert þú
þrifnust fljóða,
hýrlunduð meðr
*hlýrinn* fagra
*ok ljósgula lokka?*
Ekkert vífa
ek leit fyrri

hæversklegra
fyrir *hauðr* ofan“.

Hún kvað:

„Hervör ek heiti
Hundings dóttir;
minn feðr *röskvan
ef þú réðir líta,
líf þitt án dvöl
þú láta mundir,
ef þú gengir
gegn döglingi“.]

Ok enn kvað hún:

„Alt ferr eftir einu(!)
er margir vita(!)
til vina litir(!)
af nistils fólki(!);
fyrr skyldir þú hanga
á hávum gálga,
enn í gla*m*tygjum
gakk þú ei framar hóti“.

Hann kvað:

„Hörðr mælti[1]
enn hyggjustóri:
hví hrekr þú mik,
Hervör, í orðum?
Væri heldr nær
vífi skæru,
vera horskum dreng
holl í ráðum“.

Hörðr mælti þá til Hjálmþérs: „Maðr, muntu sýna list þína Hervöru ok blíðka hana“. Hörðr fekk honum gripu þá er hann tók ór hellinum og sagði at hann

1) Þetta vísuorð virðist benda til, að vísurnar séu eldri en sagan, og sé hún samin eftir fornkviðu; sbr. vísu Hástiga á bls. 381.

skyldi fá henni þá. Hjálmþér fær henni nú öll þessi gersemi, enn hún varð glöð við ok þakkar honum forkunnar vel ok kvaðst honum dugnað veita skyldu, ok sagði honum frá mörgu hvernig þar var háttr á einu ok öðru hjá föður hennar ok öllum vandræðum sem þar var at forðast; „því þegar faðir minn veit at þú hefir mik fundit, þá vill hann þik feigan, því hann verðr alls víss af fitónsanda innblæstri“, enn hún kvaðst honum ráð mundu leggja sem hún kynni. „Skaltu nú senn“, segir hún, „ganga fyrir föður minn djarflega ok kveðja hann kurteislega; hann mun taka því mjök vel ok spyrja þik margs, enn þú skalt ór öllu vel ok vitrlega leysa. Ráðgjafa á hann sér mjök stóran ok sterkan ok illúðlegan, er Hástigi heitir; hann er stórr sem risi, enn máttugr sem tröll. Hann veit allar ráðagerðir konungs. Eigi er Hástigi betri at reyna enn hann er at yfirlitum, því hann er svartr sem jörð með hárlausan haus ok glitrauð augu, fúll ok fláráðr“. Hún kvað þá vísu:

„Í höll skaltu ganga
ok hilmi lúta,
ok kveðja kurteislega
konung hinn stórráða;
láttu eigi æðru
á þér finna,
þótt í höll lítir
háva stórgarpa“.

„Bið þú konung vetrvistar“, segir hún, „enn hann mun svara því er hann vill, enn er þú hefir mælt sem þér líkar, þá gakk þú til bekkjar hirðmanna ok vertu eigi féspar“. Hún kvað þá vísu:

„Gef þú auð, jöfurr,
ef þú örr þykist;

*þiggja* gull gumar
ok gerast þér vel hollir;
enn ef maðr metnast
við mildings síðu,
sín leiðum þitt lyndi
ok lát hann sneypu hljóta“.

Hjálmþér gekk til félaga sinna ok síðan til hallar ok ganga inn, enn Hörðr dvaldist eftir í hallardyrum, er þeir gengu inn fyrir konunginn. Hjálmþér kvað vísu, er hann kom í höllina:

„Heill sit þú, Hundingr,
hefk öngvan þér æðra
hilmi hittan
und heims skauti;
ferr þín frægð víða
um fégjafar,
því kom ek hingat
hilmis at vitja“.

Konungr tók kveðju hans ok kvað vísu:

„Hverr er sá k...
kominn ór Mannheimum
ungr at aldri
oss at kveðja?
berr þú, enn ungi,
ormfrán augu;
mun ek við brögðum
búast mega“.

Hjálmþér kvað:

„Hjálmþér ek heiti,
hirð ek fátt segja
fylki framvísum
á fyrsta kveldi;
vilk eigi hvarfla
á hallargólfi;

seg mér til sætis,
son em ek grams Yngva“.

Konungr mælti: „Frétta mun ek fleira þurfa áðr“, ok kvað vísu:

„Hverr er sá enn horski,
er hjálmi ok gerð stýrir,
sterkr ok stórmannlegr
stendr þér á hlið aðra?
glöggvara máttu greina
frá görpum þínum,
þá veit ek gerr,
hvar gestum skal skipa“.

Hjálmþér kvað vísu:

„Ölvér hann heitir,
er hræðist aldri
eld né eggjar
eða í her ganga,
borinn sem buðlungar,
þeir er beztir eru,
mætri enn mildingar,
minn er fóstbróðir“.

„Vel er frá manni sagt“, segir konungr ok kvað vísu:

„Hverr er sá gaurr,
er í gáttum stendr
ok ríss röskloga
við rótakylfu,
gnapir með hetti
ok hyggr at gumna mengi;
lítt er skúmr sá
at skapi mínu“.

Hjálmþér kvað:

„Hörðr hann heitir,
hefir fátt prýði,

velr um vópn sjaldan,
vill eigi skart þiggja;
*öldunga einninn
eigi hann hræðist],
maðr mjök snarlegr,
met ek hann mikils".

Konungr kvað:

„Lítt honum sómir
hjá seggja liði,
þeim er í gullvefjum
glóa allir;
siti hann yzt
hjá seggjum mínum;
skal honum veita vel
með vórum þegnum".

„Eigi munu þér því ráða", segir Hjálmþér, „ok munum vér annathvórt sitja allir eða enginn vór". „Slíkt eru mikil undr", segir konungr". Hjálmþér bað konung vetrvistar. Konungr sagði þeim til reiðu drykk ok vist, „enn til muntu vinna lítit þrekvirki; horn ij skaltu sækja á kálf minn ok vil ek af þeim drekka á hinn átta dag *jóla, ella munuð þér missa lífit". „Þetta á mikils at kosta", segir Hjálmþér, „eðr hvórt á ek þessa kálfs at leita?" „Seg þú þér þat sjálfr", segir konungr. Hjálmþér mælti: „Herra, skipa oss fyrst sætit". „Þat skal vera", segir konungr ok kvað vísu:

„Harðr muntu heima,
er þú hyggst öllu ráða
hjá oss í dýrum
höllum vórum;
hefir þú brand hvassan,
brynju ok hjálm vænan
ok sófnis bingi aðra;
set þik aftr af því".

Hjálmþér kvað vísu:

„Ungr var ek heima
ok öllu skipaði
skatna liði
at skapi mínu;
gerði þat hugnast
alt harðla vel
fylki vísum
ok velbornum sveinum".

Konungr leit til Hástiga ok kvað:

„Statt upp, Hástigi,
ok gef rúm gestum,
*furðu farmóðum
ok frekum í ræðu;
mik hafa ei öðlingar
áðr heim sóttan,
þeir mér sýnzt hafa
með svinnra bragði"].

Hástigi leit við konungi heldr ófrýnlega ok kvað:

„*Hástigi mælti:*
hefir fyrr ór sæti
eigi *þú* mér boðit
upp at standa;
feigð mun vóndsleg
fylki granda,
hanga skyldu hinir
á hæsta gálga;
þeir munu þik svíkja
þat segi ek fyrir gerla".

Konungr leit til hans mjök reiðulega ok kvað:

„Æ ertu illr gestum,
oft hefir þú hölda,
þá mik heimsóttu,
til heljar færða;

gakk á bekk annan,
garpr meinhugaðr,
hnittr (!) enn harðleiti,
harðr er á borð annat“.

Hástigi stóð nú upp ok gekk um þvera höllina ok settist niðr, enn Hjálmþér gekk til sætis ok þurfti tveggja manna rúm, enn Ölvér þriggja, því at hann var manna mestr. Hörðr var jafnmikill sem þeir báðir fóstbræðr, ok var þeim þó sætit nógt, sem Hástigi hafði áðr í setit. Litlu síðar tekr Hörðr sjóð fullan með gull; hann gefr nú til beggja handa, þar til hann hafði öllum býtt í höllinni nema Hástiga; var þá gullhringr einn eftir. Hann gaut augum til hringsins. Hörðr sá þat ok rétti at honum, enn hann seildist í móti. Hörðr stakk stóru trékorni í hringinn ok þetta sama kefli setti hann framan á tennr Hástiga, enn hann sá óglögt til, því sólin skein á glugga, enn keflit kom á Hástiga svó hann dettr þegar á bak aftr með allmiklum hljóðum ok hnúskar óhaglega höfðinu, enn sessunautar hans hlógu at honum, enn hann skar allólaglega höfðinu ok rumdi fast. Um síðir raknar hann við, er verr var; skýtr nú augunum, enn sker greiprnar, ok mælti: „Sleginn var ek, sveinar“. Í þessu réttir Hörðr at honum í annat sinn hringinn; hann tók þá við hringnum ok geymdi. Hörðr mælti: „Oft hefir hundr, er hafna*t er*“. Sessunautar Hástiga sögðu, at nú væri maklega leikin mannfýlan. Konungr skipar þeim eitt lofthús vænt at sofa í. Konungr spurði Hjálmþér margs, enn hann leysti vel ór öllu; hafði Hörðr frætt hann at mörgum hlutum, því at hann kunni af öllum löndum að segja nokkut. Jafnan var Hjálmþér í skemmu Hervarar konungsdóttur ok tefldi við hana. Hún var öllum kvenmannlegum

listum prýdd; hún kunni ok allar stjörnu listir ok steina íþróttir.

XV. Þat var einn dag, at Hjálmþér sat nærri konungsdóttur ok tefldi við hana. Hún spurði hann þá at, hvat hann ætti til vetrvistar at vinna. Hann kvaðst eiga að sækja kálf einn. „Hvert áttir þú hann at sækja?“ segir hún. „Konungr vildi mér þar enga grein á gera“, segir hann. „Enginn kálfr er þetta“, segir hún, „heldr er þat gamall uxi, níræðr at aldri; hann etr fénað, enn drepr menn ok hesta, því hann er hverju dýri grimmari; hann hefir ok drepit alla þá menn, er eftir honum hafa farit ok föður minn hafa beðit vetrarvistar. Þat var ok er hit mesta blótnaut ok fæðist mest á mannaholdi; hljóð hefir þat hvelt ok digrt, svó enginn maðr stenzt; hann er í einum garði hávum og sterkum mitt hér á landinu, ok eigi má hann lauss vera, því þá brýtr hann niðr borgir ok kastala enn vinnr yfrinn skaða á mönnum ok fénaði; öll kvikindi eru hrædd við þetta arma naut“. Þau léttu nú talinu, ok gekk Hjálmþér heim í loft sitt ok sagði þeim kompánum sínum hvat konungsdóttir hafði sagt honum. Leið nú vetrinn fram til jóla, enn tveim nóttum fyrir hinn fyrsta jóladag stóð Hörðr upp ór sæng sinni, svó at þeir fóstbræðr vissu eigi af. Hann tók saxið Ölvés ok gekk út síðan ok til skógar, þar sem stórar brautir lágu. Gekk hann svó lengi um nóttina þar til brautirnar kvísluðust. Hann hugsar nú mikið um sinn hag, hvernig ganga mundi; reikar hann nú forntroðinn götustíg í þykkva mörkina ok eigi fyrri léttandi, enn hann kemr fram á annes eitt, breitt ok fagrt yfirlits. Hann sér nú garð hávan, gerðan með múrsteina; þangat gengr hann ok hafði kylfu tólf álna háva í hendi, með stórum göddum ok löngum fleini fram ór. Hann seild-

ist jafnhátt garðinum með henni. Hann gengr nú með garðinum fram nokkura stund ok berr allstaðar jafnhátt. Sér hann nú at eigi muni svó búit duga; því tekr hann sér kaðal einn ok bindr hann við stein einn stóran ok kastar inn yfir garðinn ok les sik svó upp yfir garðinn. Enn uxinn lá á vellinum fyrir innan garðinn ok hafði snúit um allri grundinni; hann hrýtr ok sefr ok sníðir illa ok hefir ill svefnlæti. Hörðr þóttist vita, at hann mundi hrjóta inn af garðinum fyrir nasalátum gridda, ok sá at þat mundi margan hafa til bana leitt; því leysir hann upp stein ór festinni, fleygir honum á stað ok kom hann á síðu nautsins; hann vaknar nú við með miklum ærslalátum, springandi þegar af stað ok skundar alla vega; dregr hann þá veðrit af manninum ok hleypr at garðinum þar sem Hörðr var fyrir. Hann vill nú eigi lengr bíða hans, reiðir upp gaddakylfu sína ok slær henni í hausinn gridda, svó at allir sukku gaddarnir, enn boli hristist við ok skekr höfuðit ok lét ólmlega, svó at Hörðr misti kylfunnar ok hraut langt út á völlinn. Enn uxinn skopar skeið at garðinum ok flensar tungunni eftir Herði ok dró hann at sér. Hann fær nú ei annat fangaráð, enn hann kastar sér flötum ofan á milli hornanna á uxanum ok spenti svó höndunum niðr um hálsinn, enn boli brauzt um fast ok hart, hlaupandi aftr ok fram um garðinn með felmzlegum hljóðum, berjandi fótunum ok hristandi höfuðit. Vissi Hörðr at þat mundi hans bani ef hann dytti ofan. Verðr þat um síðir, at boli mæddist af miklu umfangi ok blóðrás. Hann skopar nú skeið at garðinum með miklum ok illum látum ok kom upp framfótunum á garðinn ok í því leggr Hörðr með saxinu undir bóginn á uxanum svó at í hjartanu stóð; brauzt nú boli um þar til at hann dó, ok hafði þá brotit mikit hlið á garð-

inum í sínum fjörbrotum. Hörðr fló nú upp uxann með öllum leðrum ok fylgdu hornin húðinni. Hörðr leggr hana nú á bak sér ok berr heim ok fleygir henni niðr fyrir lofts dyrnar. Hjálmþér vaknar við dynkinn ok spratt upp; í því kom Hörðr inn. Varð Hjálmþér honum allshugar feginn ok heilsar honum blíðlega, enn Hörðr var heldr skapstyggr ok bað Hjálmþér útganga. Hann gerir svó ok sér nú húðina. Hörðr mælti: „Tak nú upp húðina, Hjálmþér“, segir hann, „því þú þykist vera mjök sterkr“. Hjálmþér tók þá til húðarinnar af öllu afli ok gat hvergi hrært hana ór stað. Hörðr sagði, at hann mundi í framkróka leggja þúrfa ef duga skyldi. Hjálmþér sagði af sinni hörku raun hina mestu at frammi er. „Þá mæli ek þat um“, segir Hörðr, „at þú takir við afli okkru Ölvés beggja, nema ór minstum fingrum okkrum, þá er þú gengr fyrir konung í dag ok hann sitr yfir sínum borðum, ok ber þú inn húðina á lófa þínum“. Þetta varð nú þegar sem Hörðr mælti. Gengr Hjálmþér þegar fyrir konung ok vóru nú allir í höllinni við hann hræddir. Hann kastar húðinni upp á borðit fyrir konung svó hart, at þat brotnar sundr í tvó hluti ok gekk í burtu síðan. Tóku þeir nú aftr afl sitt báðir, Hörðr ok Ölvér. Konungr bað Hástiga bera burtu húðina, enn hann tók sjálfr af hornin. Hástigi gerði svó, ok veitti honum et versta ok gekk mjök hokinn í knjáliðum. Var þá tekit upp borð annat. Þeir fóstbræðr gengu nú báðir í höllina, ok var veizla hin bezta ok drukku nú allir af hornunum um jólin.

XVI. Einn dag spyrr konungr Hjálmþér, hvórt hann vill öngva skemtan hafa. Hann bað konung því ráða. „Þú munt nú glíma við pilt minn á morgun“, segir konungr. Hjálmþér bað hann gera sem hann vildi;

enn að morgni dags standa þeir upp kompánar ok ganga fyrir konung. Þá var framleiddr blámaðr furðulega stórr, svartr ok digr sem naut ok at öllu var hann ámátlegr. Konungr mælti: „Hér er nú kominn piltrinn, Hjálmþér“. Hörðr mælti: „Við þennan svein skal ek glíma, af því vit höfum eina nafnbót báðir at vit erum þrælar“. Eigi fór Hörðr af loðkápu sinni. Síðan ráðast þeir á með sterkum fangbrögðum ok hörðum hnykkingum, er hvórr veitti öðrum, með hnefaslögum ok hnéskotum, klóri ok kreistingum. Gekk þetta lengi dags. Þóttist konungr ok þeir sem í höllinni vóru öngvan slíkan atgang sét hafa. Stólpi einn lágr stóð í höllinni, ok þegar bar blámaðrinn Hörð at honum, enn hann snerist við glímumannlega ok fær en neðri tökin, enn við þessu sá blámaðrinn ekki. Hann þreif hann nú upp á bringu sér ok brá honum magabragð, eigi alllítit ok rak hann niðr við stólpanum svó hart, at hryggrinn brotnaði í blámanninum, enn hann öskraði eigi allvel. Lét hann nú fylgja kné kviði með fúlmannlegum kverkatökum ok kreisti hann svó til dauðs. Við þetta varð konungrinn mjök reiðr, enn allir þökkuðu Herði. Var nú hinn dauði útdreginn. Konungr mælti: „Mikinn skaða hefir þú mér gert ok mínu ríki í drápi þessa manns, ok því skulu vit toga tein um eld hér í höllinni á morgun, ella sá sem ek skipa til“. „Þér munuð ráða vilja, herra“, segir Hörðr; „því líkar mér hverr sem er“.

XVII. Um morguninn árla gengu menn til hallar; þar var gert bál mikit. Litlu síðar kom konungr þar ok mælti: „Hástiga fæ ek til at stíma við þik“. Hörðr mælti: „Vel er þat“, segir hann, „at vit skulum reyna skinndráttinn, ok bú þik til, Hástigi“, segir Hörðr. Hann fór nú af öllum sínum klæðum, enn ekki

fór Hörðr ór loðkápu sinni. Þeim var fenginn í hendr svörðr allsterkr; koma nú í átök stór ok allmiklar sviftingar ok vóru uppi á þeim ýmsir endar. Kiptu þeir snart sverðinum í sundr í milli sín. Bað konungr þá at sækja uxahúðina ok hún var þeim fengin; tóku þeir nú á með öllu afli, ok vóru nú hnykkingar rammlegar, svó at ýmsum var búit at hrjóta fram á bálit. Var Hástigi sterkari, enn Hörðr hepnari ok mjúkari. Konungr mælti: „Lítt er ákveðit, Hástigi, er þú lætr þetta barn svó lengi stritast á móti þér ok eigi hærra enn uppríss". „Þat mun eigi lengi", segir Hástigi, „ef ek herði mik til fulls". Enn á meðan þeir töluðust við, Hástigi ok konungr, tók Hjálmþér sverðit ok saxit ok stakk niðr fyrir fætr Herði, ok sá þetta enginn, því loðkápa Harðar slútti fram yfir. Hástigi tekr nú á svó fast, at Herði var eigi annat búit enn hann mundi fram tumba á eldinn. Þóttist Hörðr aldri í þvílíkar hnippingar komit hafa. Var nú svó átekit af hvórumtveggjum, at öllum í höllinni þótti miklum býsnum gegna, eðr undrum, er þeir vóru eigi sprungnir af mæði, ok hvat þeir þoldu af sínum miklum atgangi ok sterkum átökum. Hörðr mælti þá til Hástiga: „Búst þú við, því nú mun ek herða mik ok skaltu nú eigi lengi lifa". „Svó mun ek gera", segir Hástigi. Hörðr tekr nú til með öllu afli ok kipti Hástiga fram á bálit og fleygði húðinni ofan á hann, ok fór svó sjálfr á bak honum ofan ok gekk síðan til bekkjar. Konungr bað taka manninn af eldinum ok var Hástigi þá mjök brunninn. Konungr varð nú reiðr, enn þótti sér þó mikit um at kenna.

XVIII. Um kveldit gekk konungr snemma til sængr ok vóru þá slokin ljós öll ok eldr í borginni. Hjálmþér kveðst til sængr vilja. Hörðr brá Snarvendli ok lýsti af honum ljósi. Gengu þeir nú í loftit

ok sáu umbúning nýkominn yfir sængina; þar var einn stokkr ok sverðsegg í bitrleg; einn mjór strengr var í endanum stokksins. Hörðr mælti: „Ekki skulu vér niðr leggjast, því sá hefir ætlat oss búinn bana, sem hér hefir um búit“. Þeir lögðu sik nú niðr á gólfit, ok sofnuðu þeir fóstbræðr skjótt, enn Hörðr hraut fast ok lét sem hann svæfi. Litlu síðar heyrði hann at maðr gekk út hjá loftinu ok þreif í strenginn ok kipti niðr stokkinum. Þeir brutust um mjök fast. Þá var fjölum ór kipt, ok kom upp höfuð mjök stórskorit; sjá þreifar í sængina. Þá höggr Hörðr þann sundr í miðju ok dettr út hvórrtveggi hlutrinn. Eftir þat leggjast þeir niðr. Um morguninn var sagt konungi, at Hástigi væri dauðr, ok þar með svik þau er hann hafði gert við Hjálmþér. Konungr gaf sér fátt um ok leið nú af vetrinn.

XIX. Enn er þrjár nætr vóru til sumars, þá fann Hjálmþér Hervöru. Hún mælti: „Muntu nokkut vera lengr hjá feðr mínum?“ „Nei“, segir Hjálmþér. Hún mælti: „Í kveld skaltu ganga fyrir hann ok þakka honum fyrir vetrvistina, því at hann sefr sex dægr fyrir sumar ok verðr þá alls víss í jörðu ok á, ok eigi má honum neitt á óvart koma. Vil ek at þú siglir i burt snemma á morgun, því at honum er ekki vel til þín“. Hann þakkar henni öll sín góð ráð ok skildu þau nú talit. Enn um kveldit gekk Hjálmþér fyrir konung ok þakkaði honum vetrvistina: „skal ek“, sagði hann, „þína frægð ok rausn bera á öll lönd“. Konungr mælti: „Þetta eru ráð Hervarar dóttur minnar, ok verðum vér nú svó búit at skilja; get ek um sinn ekki at gert“. Sváfu menn nú af um nóttina. Enn um morguninn árla bað Hjálmþér alla menn vel lifa. Hann bað Hervöru með sér fara, enn hún kvaðst þat ei vilja:

„því þat er bani yðar“, segir hún, „ok vil ek heldr mitt líf láta, því faðir minn vægir öngum fyrst er hann vaknar, hvórki vinum né frændum“. Hjálmþér bað hana vel lifa, enn hún bað hann ok vel at fara ok allan heiðr hljóta ok æru, ok fell hún í óvit við þeirra skilnað. Enn er Hjálmþér ok Ölvér kómu til skips, mælti Hörðr: „Ekki hefi ek heilsat Hervöru“. Hann tekr nú svarðreip mikit ok gekk heim ok kastar því um turninn Hervarar, ok berr svó alt ofan til skipa ok út á sitt skip; enn þeir fóstbræðr vóru á öðru skipi. Hjálmþér spyrr, hvat Hörðr bæri. „Hér fer ek með Hervöru“, segir hann, „fyrir utan vilja föður hennar, frænda ok vina; mun hún nú með mér fara; vill hún skjótlega hafa þinn fund“. „Slíkt er vitrlega farit“, segir Hjálmþér, „ok rösklega; hefir þú *þennan gerning] mjök af hinum fyrrum mönnum. Hjálmþér stökk nú á skip til Hervarar, enn hún stóð upp í mót honum ok talar til hans blíðlega ok mælti: „Ertu enn ekki af stað farinn, vinr“, segir hún. „Ekki enn, kæra jungfrú“, segir hann, „ok vil ek at þér gangit á mitt skip“. „Gjarnan“, segir hún; „enn mikinn skaða hafi þér gert föður mínum, at þér takit mik í burt utan hans vilja, enn þó vil ek heldr með yðr fara enn eftir vera“. Kom nú snart blásandi byrr ok sigla þeir nú í haf, enn er þeir sáu ekki til landa, tók af byrinn, ok rak þá um höf innan með straumum fjögr dægr, enn hit fimta dægrit stóðu skipin kyrr. Hervör mælti: „Faðir minn ræðr veðrátt þessarri ok svó því, at skipin standa kyrr. Mun hann nú vaknaðr ok ei allfátt dreymt hafa; veit hann nú allar ykkrar athafnir ok fyrirætlanir ok svó þat, at þér hafið mik á brott tekit, ok munuð þér hafa nógar raunir þess er þér hafið gert“.

XX. Litlu síðar sáu þeir, hvar einn stórr hross-

hvalr legst með miklum forsaföllum ok ógurlegum látum at þeim. Hörðr mælti: „Þar er sú skepna, at mér er minst um ok ek má eigi sjá; verði þit nú, fóstbræðr, nokkurs styrks við at njóta ok eigi megi þit nefna mik meðan hann er hér, því þá dey ek“. Síðan legst hann niðr í kjöl ok þöktu þeir hann klæðum. Síðan sáu þeir renna skeljung undan skipi þeirra ok at hvalnum, mjök snarlega, ok ræðr þegar á hann; kómu þeir í kaffarir stórar. Litlu síðar sáu þeir renna undan skipi Hervarar vögnu eina væna ok fagra, ok réð hún ok þegar á hvalinn; vóru þá miklar sviftingar ok harðar árásir, er hvórir veittu öðrum. Verðr skeljungrinn ok vagnan skjótt móð, því at hvalrinn var þungr fyrir ok sterkr mjök; kastaði hann þeim af sér, svó at þau kómu fjarri niðr á sjóinn. Hjálmþér þóttist nú sjá fyrir at þessi hin illa skepna muni þau skjótt yfirvinna; þá mælti hann: „Hv*ór*t mun mér í annat sinn meiri þörf Skinnhúfu ok Vargeysu enn nú, at þær komi oss at hjálp“. Enn er hann hefir þetta mælt, sá hann fljúga tvó gamma; þeir höfðu nef ok klær af járni; þeir settust á hrosshvalinn ok kroppuðu eigi miskunnsamlega, því at stórar þjósir tóku þeir af hans vónda kroppi, enn hann veitti miklar árásir í móti. Þeir rifu ok slitu hvalinn sem þeir gátu. Þá bar nú at skipunum ok fengu þau áföll stór. Hjálmþér sá, at allar þessar skepnur létu undan illhvelinu. Hann tók þá brandinn Snarvendil ok mælti: „Fyrr skal ek missa þik, enn ek hjálpi þessum skepnum eigi“. Hann skaut nú brandinum af hendi ok niðr í gegnum hausinn á hvalnum, svó í auganu stóð. Ölvér sá þetta ok skaut þegar saxinu í annat augat á hvalnum, ok fór þat sem hit fyrra. Við þetta dapraðist heldr hvalrinn ok vissi ekki hvérnig hann skyldi láta, ok velti sér á ýmsar síður ok beit ok reif alt sem hann

kom við, enn blóðit rann sem lækr niðr af gömmunum, því þeir flöktu allir sundr af sárum, ok svó skeljungrinn ok vagnan. Varð þat um síðir, at hvalnum dapraðist sundit ok síðan rifu þau hann til dauðs ok sökk hann til grunns, enn gammarnir flugu á burtu mjök yfirkomnir, svó blóð rann undan hverri þeirra fjöðr, ok flugu þeir seint ok lágt. Hjálmþér gekk þar til sem Hörðr lá ok sá at hann var vótr. Hörðr mælti: „Er nú dauðr hvalrinn?“ Hjálmþér segir hann horfinn. „Hefi ek ok þar mist brandinn, enn Ölvér saxit“. „Hér er nú hvórttveggja“, segir Hörðr, „ok er nú mikit at gert, at Hundingr konungr er af dögum ráðinn“. Þeir þakka honum nú lífgjöf, er hann hafði þeim bjargat ór slíkum lífsháska, sem þeir vóru í komnir. Hörðr mælti: „Kom þú til Hervarar, því hún mun skjótt þurfa dugnaðar þíns“. Hjálmþér stökk nú upp á skipit til hennar. Hún lá þá í óviti ok mjök lítt til reika. Hjálmþér dreypti nú á hana víni ok raknaði hún skjótt við. Rann nú á byrr ok vinda þeir upp segl sín ok vóru nú laus skipin. Sigldu þeir um alt sumarit.

XXI. Enn at hausti kómu þeir at einu landi stóru ok ágætu. Þat var með stórum *borgum ok fögrum ökrum, ok miklum skógi ok fögrum, ok allra handa dýrum ok fuglum. Ekkert land þóttust þeir fóstbræðr þvílíkt sét hafa né spurn af hafa haft; þeir spurðu Hörð hvat landi þat væri. Enn hann kvaðst þat eigi vita: „enn hér munum vér á land ganga“. Hjálmþér kvaðst þat eigi vilja, enn Hörðr segist ráða skyldu. Skutu þeir nú bryggjum ok ganga á land. Hörðr mælti: „Kanna skulu vér land þetta“. Hjálmþér mælti: „Hervör skal með oss fara, því við hana vil ek eigi skilja“. Hörðr kvað þat eigi skyldu: „vil ek einn ráða“, segir hann, „því vér munum eigi langt fara“. Þeir ganga

nú allan þann dag, enn at kveldi kómu þeir at húsi einu litlu ok vænu. Hörðr lýkr upp húsinu ok var þar sæng ein; þar var ok kostr nokkurr ok öl. Um kveldit talar Hörðr nokkut fleira enn hann var vanr ok mælti: „Undarlega brá mér við, er ek kom í hús þetta“. Leggjast þeir nú niðr ok sofa fast. Enn um morguninn er Hjálmþér vaknar, lá Hörðr, enn því var þó ekki vant. Hjálmþér sagði við Ölvér, at hann skyldi sofa í náðum. Líðr nú á daginn; gengr Hjálmþér þá at Herði ok tekr á honum ok bað hann vakna. Fann Hjálmþér nú at hann var dauðr; fell hann þá aftr á bak í sængina ok sprakk honum blóð undan hverjum nagli ok ór nösum. Ölvér spyrr hvat honum væri. Hjálmþér gat lengi öngu svarat, enn þó sagði hann honum þá, at Hörðr væri dauðr. Ölvér mælti: „Þat veit trúa mín, ef þú værir ekki minn fóstbræðir, skyldir þú skjótt deyja“. Hjálmþér kvað vísu:

„Berum á baki okkru
brodda fram*an* keyri;
launum svó líf honum,
látum hann eigi eftir;
heygjum Hörð hvergi
fyrr enn heim komum;
gröfum hann heima
hallarvegg undir“.

„Kjóstu nú, Ölvér, hvórt þó vilt heldr, bera kylfu hans ok loðkápu eðr hann sjálfan“. Ölvér kvaðst kylfuna ok hitt bera vilja. Hjálmþér flettir hann nú loðkápunni ok sér at hann var undir í rauðum skarlazkyrtli ok hafði silfrbelti um sik, enn gullhlað um enni. Hjálmþér mælti: „Sjá þú nú Ölvér, at þetta er konungsson framar enn hvórr okkar, enn eigi þræll, sem vit höfum lengi ætlat“. Leggr hann nú Hörð á bak sér ok

þótti honum hann léttr; ganga þeir nú þann dag til kvelds ok kómu at öðru húsi ok fengu þar góðar náðir. Fóru svó annan daginn. Hinn þriðja daginn tók Ölvér til orða: „Ekki ber ek lengr kápuna né kylfuna, því fulllúinn er ek af þessarri byrði, enn þat þó meira, at þú berr svó lengi dauðan mann eftir þér; mun þetta verk uppi meðan heimrinn stendr". „Þú talar mikil æðru orð", segir Hjálmþér, „ok fá mér hvórttveggja". Ölvér gerir svó. Ganga þeir nú til kvelds ok koma at húsi hinu þriðja. Hjálmþér lét Hörð í rekkjugólf um kveldit. Ekki hafði Hjálmþér sofit síðan Hörðr dó. Hann vakir nú sem hann var vanr, utan á móti morgunsári kom á hann svefnhöfgi, enn er Hjálmþér vaknar, var Hörðr í burtu. Varð honum nú ei betra við enn í fyrra sinni. Hjálmþér mælti: „Aldri verð ek glaðr upp frá þessum degi, fyrr enn ek finn Hörð". Þeir stóðu nú upp ok ganga leið sína, þangat til at þeir kómu fram á völlu væna. Þeir sáu fyrir sér borg stóra ok harðla væna, alla gagnskorna ok rent gulli ok silfri í skurðina. Hún var fagrlega múruð með rauðum steini ok blám, ok gulum ok grænum, hvítum ok svörtum. Hennar turnar vóru vænir ok hávir ok þaktir með gulli. Þeir gengu til hallar ok inn í höllina ok fyrir konung. Ölvér kvaddi hann, enn Hjálmþér þagði. Konungr tók vel kveðju hans ok bað taka stól ok setja frammi fyrir sik, ok þar lætr hann þá fóstbræðr setjast á niðr. Þat sáu þeir, at höllin var öll skipuð með sæmilegu fólki. Konungr bað þá vera káta ok glaða eftir mikla mæði. Hjálmþér át hvórki né drakk; hann var stundum bleikr, enn stundum rauðr sem blóð. Litlu síðar lukust upp hurðir hallarinnar ok gengu þar inn xxx. meyja, enn tvær báru þó langt af. Var önnur þó miklu vænni. Þóttist

Ölvér öngva slíka sét hafa, at allri sköpun ok fegrð; fyrir þeim var básónerat með allra handa hljóðfærum ok var nú mikil gleði í höllinni. Jungfrúrnar ganga fyrir konung ok kveðja hann kærlega ok kalla hann bróður sinn ok setjast niðr. Ölvér sér at Hjálmþér roðnar mjök ok at hann dró Snarvendil ór slíðrum ok lagði niðr undir stólinn. Konungr leit til Hjálmþérs ok kvað vísu:

„Hvat] er þèr, Hjálmþèr,
hefir þú lit brugðit?
stórt er þèr í hug,
þú starir á mik löngum".

Hjálmþér tók undir ok kvað hálfa vísuna:

„Hvarf enn hugprúði
Hörðr ór för minni,
get ek þik glíkan honum
gái ek því eigi drekka".

Konungr reiðist þá ok kvað vísu:

„Eyðast man sæmd þín,
ef ek skal líkr vera
aumum illþræli,
er ekki prýðir,
*ragr í hverja taug,
nema reiða mat svínum
halr enn hrafnsvarti
í hræyaskrúði"].

Hjálmþér vill nú þrífa til sverðsins ok var þat í burt. Þá kvað hann:

„Burt er Snarvendill
úr slíðrum horfinn;
má'k eigi víg vekja
veldr því Ölvér,
hefna munda ek Harðar,
ef hann hér væri,

ok rjóða minn mæki
í manna blóði".

Eftir þat gekk önnur mærin at Ölvé ok kvað:

„Sax hefir þú, Ölvér,
slík eru vópn færri,
bana veitti *Bendli,
barstu þat ór helli;
brá ek hilmis sonum
í hana líki;
forðaðek ykkru fjörvi;
fegri er ek nú hóti".

Ölvér mælti: „Satt segir þú, jungfrú", ok tók meyna ok setti í kné sér. Litlu síðar gekk önnur jungfrúin at Hjálmþér ok kvað:

„Keyptir þú Snarvendil
með kossi einum;
var þat verð lítit,
vel frá'k mér þó kæmi;
örr mundir þú at auði
ef aftr svó fengir,
iöfurr enn ógndjarfi
ok einkar heppni".

Hjálmþér lét sem hann ekki heyrði, ok þagði sem áðr, ok gekk hún þá aftr til sætis síns, enn er konungr sér þetta, strauk hann fram undan borðunum, tók horn eitt ok rendi á vín, gekk at Hjálmþér ok kvað vísu:

„Tak hér við horni,
er þér Hörðr færir;
gef nú ró reiði,
ok ræðum þá síðan;
þú hefir oss hólpit,
enn vér yðr borgit
öllum ór ánauðum;
yndis vér njótum".

Hjálmþér stóð þá upp í móti Herði, ok mintist hvórr við annan, ok urðu þar fagnafundir. Var nú drukkit fagnaðaröl ok en bezta veizla.

XX. Þat var einn dag veizlunnar, at konungr sat í sínu hásæti ok þeir fóstbræðr næst honum, enn jungfrúrnar á stóli frammi fyrir, ok vóru þá allir glaðir með orðum fögrum ok ölværð, gleði ok gamni ok allskonar skemtan. Hjálmþér spurði hina fríðari mey at heiti, eðr hvert hennar faðerni væri. Hún kvaðst Álfsól heita: „enn minn faðir er dauðr, er hér stýrði landi, enn bróðir minn tók ríki eftir hann, er Hörðr hefir nefnzt, ok heitir Hringr. Hildisif heitir önnur systir mín, enn land þetta heitir Arabíá. Kann bróðir minn at segja yðr slíkt sem er af vórum forlögum, ætt ok uppvexti“. Skildu þau svó talit. Biðr nú Hjálmþér Hörð at greina sér gerr þat sem hún hafði honum sagt. Hringr konungr kvaðst þat gjarna vilja gera. Er nú alt hljótt ok tvist í höllinni, ok hefir konungr svó sitt mál: „Þat vil ek yðr fyrst kunngera, at minn faðir hét Tólómeus, er hér stýrði Arabíá ríki. Hann átti drotning harðla væna ok með henni átti konungr oss þrjú systkin. Liðu svó langir tímar þar til at móðir vór tók sótt ok andaðist. Var haugr orpinn eftir hana, ok þráði konungr mjök drotning sína. Konungr átti sér ráðgjafa trúan ok dyggan; hann gekk einn[1] dag fyrir konung, ok kveðst vilja leita honum at kvónfangi, ok því játar konungr. Ráðgjafinn ferr, ok kemr aftr at hausti; er þá drotningarefnit í för með honum; hún hét Lúdá; er þegar brúðkaup gert; leizt öllum vel á þessa konu; ekki vildu vér systkin sitja brúðkaupit; gekk veizlan vel fram. Leið eigi langt, áðr

1) Hér þrýtr handritið (Vigrarbók), sem sagan er hér prentuð eftir.

enn þeim þótti drotning ill, bæði í skapsmunum ok orðum, enn í gerningum verst; réð hún skjótt föður mínum bana, því henni þótti hann gamall, enn hún ung ok lystug; vildi hún síðan mik átt hafa, enn ek vilda ekki hennar ljótum vilja samþykkja. Lagði hún síðan á mik, at ek skyldi þræll sýnast, svartr ok illúðlegr, ok aldri skylda ek mat mega eta nema á miðju gólfi ok aldri ór þessum álögum komast, nema nokkurr konungsson vinni þat til mín, at láta mik öllu ráða, ok bera mik á baki sér þrjá daga dauðan; nú hefir þú þetta hvórttveggja gert. Þat eitt lagði hún á mik til líknar, at ek mætti gera, hvat sem ek vildi orkat hafa, ok aldri skyldi mér afltátt verða, ok alla hluti yfirvinna, þat sem fyrir mik væri lagt. Á Álfsólu systur mína lagði hún, at hún skyldi verða at fingálkni, ok aldri ór sínum álögum komast, nema nokkurr konungsson vildi kyssa hana. Þá fekk fóstra mín henni Snarvendil; var hún hann at henda ýmist með munni eðr höndum. Enn Hildisif skyldi sýnast at öllum yfirlitum sem tröllkona, ok vera nær bróður hennar. Hann átti bygð í einum helli stórum, ok skyldi hann ekkert grand mega gera henni. Hún átti ekki fyrr at komast ór sínum álögum, enn hann væri drepinn með því sama sverðí, sem hekk yfir sæng hans; var þat svó margt“, segir hann, „bæði fleira ok verra af henni. Enn eftir þetta fór hún í burt með mik, ok er þessi hin sama þín stjúpmóðir. Er nú enduð mín ævisaga“. Hjálmþér þakkaði honum þá góða skemtun; varð þá alt fólk glatt. Eftir þetta hóf Hjálmþér upp orð sín, ok biðr Álfsólar sér til handa; fýsti konungr þess mjök. Ölvér bað ok Hildisifjar, ok var þetta afráðit. Hér eftir vilja þeir Hjálmþér ok Ölvér heim halda; fekk konungr þeim tuttugu skip, ok léttu eigi fyrr, enn þeir kómu at

Mannheimum. Enn er Hjálmþér leit stjúpu sína, fell hún niðr í eldinn; enn faðir hans varð honum allshugar feginn; sat Hjálmþér þar nokkura stund. Hann bauð föður sínum til brúðkaups síns, ok þá konungr þat. Sigldu þeir á hundrað skipum til Arabíá; enn at þeim þar komnum gekk Hringr í móti þeim ok leiddi þá til hallar með miklum prís ok skemtan. Gekk hann þá at eiga Hervöru, ok vóru þessi þrjú brúðkaup setin með miklum mannfagnaði; ok at þeim enduðum vóru allir með ágætum gjöfum útleiddir; ok fór svó hverr til síns heimilis. Enn þeir Hringr konungr, Hjálmþér ok Ölvér mæltu til stöðugrar vináttu með sér, ok gefr hvórr öðrum góðar gjafir, ok skilja með því. Siglir Hjálmþér þá heim til Mannheima; stýrði hann því ríki eftir föður sinn. Ölvér sezt ok at þeim ríkjum, sem faðir hans hafði at stýra. Hjálmþér mat hann til alls, ok þótti vera hinn mesti afreksmaðr. Hjálmþér átti tvó sonu við drotningu sinni; hét hinn eldri Yngvi, enn hinn yngri Hlöðvér; háði konungr síðan margar orrustur, ok hafði í öllum sigr; stóð honum enginn á sporði. Ölvér styrkti hann í öllum mannraunum. Enn eftir Hjálmþér tók Yngvi sonr hans ríkit, enn Hlöðvér var hernaðarmaðr mikill; hann bar Snarvendil eftir föður sinn. Ölvér átti ok son, hverr er Herrauðr hét; hann lagðist í hernað með Hlöðvé; urðu þeir miklir kappar, ok er mart fólk komit frá þeim; unnu þeir undir sik mörg konungsríki; ok lúkum vér hér sögu Hjálmþérs, Ölvés, Hrings ok Hervarar, ok samdi sá, er vel kunni ok vel vildi.



# Hálfdanar saga Eysteinssonar.

---

Þrándr hefir konungr heitit; við hann er kendr Þrándheimr í Noregi; hann var sonr Semings konungs, sonar Óðins, er réð fyrir Hálogalandi. Semingr átti Naumu, er Naumudalr er við kendr. Þrándr var mikill höfðingi; hans kona hét Dagmær, systir Svanhvítar, er Hrómundr Gripsson átti; þeirra son hét Eysteinn, enn annarr Eirekr hinn víðförli, er fann Ódáinsakr; hans móðir er ekki nefnd. Eysteinn giftist ok fekk dóttur Sigurðar hjartar, er Ása hét; hennar móðir var Áslaug, dóttir Sigurðar orms-í-auga; Eysteinn fekk með henni Finnmörk ok Valdres, Þotn ok Haðaland; hann var ríkr ok stjórnsamr; þau áttu son, er Hálfdan hét; hann var ok stjórnsamr ok stiltr vel ok fríðr sínum, ok vandist snemma við allar íþróttir, þær sem karlmann mátti fríða ok betra var at hafa enn missa; hann var vinfastr ok trúlyndr ok vinavandr, gleðimaðr mikill, svá at alla gleði mátti við hann eiga; enn ef honum mislíkaði, þá var hann þunglyndr ok langrækr, enn eigi

mjök bráðskapaðr. Hann óx upp með föður sínum, þar til hann var fimtán vetra gamall; þá tók móðir hans sótt ok andaðist; þótti konungi þat mikill skaði ok öllum öðrum, ok var hennar útferð sæmilega búin; konungr undi lítt í ríki sínu þaðan í frá, ok fór hann í hernað hvert sumar. Maðr er nefndr Svipr; hann var ríkr bóndi ok meðallagi vinsæll; hann átti þrjá sonu: einn hét Úlfkell, ok var kallaðr snillingr; hann var mikill ójafnaðarmaðr ok eigi mjök vitr; hann var í hernaði með Eysteini konungi, ok hafði fimm skip sinna vegna; konungr helt mikit af honum. Annarr son Svips hét Úlfarr; hann var ráðgjafi konungs; hann var vinsæll maðr ok trúlyndr, ok þótti hann allstaðar bæta til bæði fyrir konungi ok öðrum. Úlfr hét hinn yngsti son Svips; hann var kallaðr Úlfr hinn illi; hann herjaði um Eystrasalt ok um Bjarmaland; hann hafði mikla ræningjasveit ok var allóvinsæll. Eitt sumar herjaði Eysteinn konungr í Austrveginn; Úlfkell snillingr var þá með honum ok Hálfdan son konungs; þeir höfðu xxx. skipa vel skipuð, enn Úlfarr, bróðir Úlfkels, hafði vald yfir ríki Eysteins konungs, meðan hann var í hernaðinum.

II. Í þennan tíma réð fyrir Aldeigjuborg konungr sá, sem Hergeirr hét; hann var við aldr; Ísgerðr hét kona hans; hún var dóttir Hlöðvés konungs af Gautlandi. Bræðr hennar vóru þeir Sigmundr, er var stafnbúi Haralds konungs hins hárfagra, ok Oddr skrauti, faðir Gull-Þóris, er getr í Landnámabók á Íslandi. Þau áttu eina dóttur, er Ingigerðr hét; hún var allra meyja fríðust, ok svá stór vexti sem karlmaðr; flestir hlutir vóru henni vel gefnir; hún var at fóstri með jarli þeim er Skúli hét; hann réð fyrir Álaborg ok jarlsríki því, sem þar lá til; hann var sagðr bróðir Heimis, fóstra

þykkizt þér konungum meiri, er þér ætlit at ek muni kasta svá út fé ok konunni, löndum ok þegnum, at gefa þrælum Sturlaugs konungs dóttur mína, ok takið þá höndum, ok skulu þeir spenna hinn hæsta gálga“. Sighvatr snaraðist út ór höllinni; komst undan til skips; biðr sína menn ferðast skjótt, unz þeir koma heim, ok segja Sturlaugi, hvat til bar á reisunni; býst Sturlaugr nú skjótt, ok þeir fóstbræðr fylgja honum, ok fara vestr til Gautlands. Sturlaugr konungr tók Dag konung höndum, því hann hafði eigi liðsafla á móti þeim, ok gerði honum tvó kosti, at hann skyldi gifta Áka dóttur sína, eða deyja ella; enn með því at konungr sér sik yfirkominn, þá kaus hann at gifta Áka dóttur sína. Áki festir sér Ingibjörgu, ok því næst var búit til veizlu, ok gekk Áki at eiga Ingibjörgu konungsdóttur, ok dvelst hann þar eftir, ok er hann ór þessarri sögu. Síðan fór Sturlaugr heim í ríki sitt, ok sat um kyrt.

XXIV. Nú er þar til máls at taka, at Framarr vill efna heitstrenging sína; býr hann nú ferð sína ór landi, ok hefir sex tigi skipa, ok halda í Austveg, ok herjuðu um sumarit ok heldu herliði sínu til Aldeigjuborgar. Þar réði fyrir Ingvarr konungr; hann var vitr maðr, ok höfðingi mikill. Ingigerðr hét dóttir hans; hún var hverri konu fríðari at sjá, enn spök at viti, læknir góðr, sóktu ok margir menn til hennar, þegar þeir þurftu við græðslu. Svá er frá sagt, at hún sjálf skyldi kjósa sér mann til eignar. Margir höfðingjar höfðu beðit hennar, ok hafði hún þeim öllum með hæverskl egum svörum frávísat. Framarr sendi menn sína til Aldeigjuborgar á fund Ingvars konungs, at biðja dóttur hans honum til handa. Konungr segir þeim orðum í móti, at hann mun þing stefna, ok biðr hann þar

koma: „ok skal hún sér sjálf mann kjósa". Framarr dvelst nú þar til at kemr sá dagr, er þingit skyldi vera; býr Framarr sik með öllum konungsskrúða, ok sækir á þingit með mörgu liði. Hann lét setja stól undir sik. Ingvarr konungr kemr þar með mörgu stórmenni. Konungr spyrr: „Hver er sá maðr, er svá lætr ríkulega?" „Ek heiti Snækollr", segir hann, „kominn þess erindis hingat til yðar, at biðja dóttur yðar". Konungr segir: „Hvar eru lönd þín ok þegnar, miklir fjárhlutir ok fremdir". „Ek ætla bæði frama ok fjárhluti til þín sækja, ef ek mægjumst við þik", segir Framarr. Konungr segir: „Hefir þú eigi þat spurt, at hún skal sjálf kjósa sér mann?" „Heyrt hefi ek þat", segir hann. Þá er sent eftir Ingigerði, ok er hún kom á þingit, kvaddi hún föður sinn; hann tók henni vel ok virðulega. „Biðli áttu hér at heilsa, dóttir", segir hann. „Hverr er sá?" segir hún. „Snækollr heitir hann", segir konungr. „Svá má jafnt vera", segir hún, ok gengr fyrir þenna mann hinn mikla, ok horfir á hann um hríð, ok mælti síðan brosandi: „alldrengilegr maðr ertu", segir hún, „enda þykkir yðr þat fóstbræðrum, at þér þykkizt konungum meiri at metorðum; kenni ek þik gerla, Framarr", segir hún, „ok þarftu eigi at dyljast fyrir mér". Eftir þat var slitit þinginu.

XXV. Fór Framarr til skips, ok halda út undir eyjar þær, er lágu næst landi. Þar lét Framarr tjalda yfir skipum sínum.. Síðan tók Framarr sér kaupmanna gerð, ok gengr til hallar, ok biðr sér vetrvistar. Konungr veitir honum þat, ok er hann nefndr Gestr. Oft sat hann um at komast í skemmu konungsdóttur, enn þat gat hann aldri leikit. Svá bar til einn dag, at hann gekk í burt frá höllinni ok eftir braut einni; hann heyrði mannamál niðri í jörðunni hjá sér; hann sér

jarðhúss munna ok gengr niðr, ok sér at þar eru seiðmenn þrír. Hann mælti: „Þat er vel at vér höfum hér fundizt; ek skal segja eftir yðr“. Þeir segja: „Ger eigi þat, Framarr, ok munum vit til vinna, þat er þú vilt, ok með hverju móti sem þat er“. Þá svarar Framarr: „Þú skalt kasta manna líkþrá á mik, enn ek skal þó þegar heill, er ek vil“. „Svá skal vera“, segja þeir, „ok er oss eigi fyrir því at vinna þetta til“. Þá sneru þeir um holdi hans öllu, svá hann var eigi nema hrufur ok þrimlar einar á millum hæls ok hnakka, ok hverfr hann í burt ok til skemmu konungsdóttur, ok settist undir skíðgarðinn. Ingigerðr konungsdóttir sendir skemmumey sína eina til hallar, ok er hún sér þenna hinn auma mann sneri hún aftr, segjandi konungsdóttur þetta um þenna mann: „ok mun hann þurfa þinnar miskunnar“. Þær ganga til garðsins, ok horfði konungsdóttir á hann lengi, þenna mann hinn vesæla, er þær höfðu engan hans líka sét, sökum síns krankdæmis. Konungsdóttir sagði: „Aumlegr er sá maðr ok sóttlegr mjök, enn þó muntu meira þurfa við at hafa at vinna mik, áðr enn þú fær mik svikit, því at kenna mun ek þik, Framarr, meðan heil eru í þér augun bæði, hverjum firnum sem þú slær á þik“; gengr hún til skemmu sinnar aftr, enn Framarr ferr á burt til seiðmanna, ok taka þeir af honum mein þat it illa; ferr hann í burt, ok hirðir aldri hvat um líðr.

XXVI. Hann gengr til skógar ok fram á brautina; hann sér hvar maðr gengr á móti sér, mikill vexti, ok heldr báðum höndum at kviðnum; hann var í brynju, ok hjálm á höfði, enn sverðfetillinn hekk við brjóstit framan. Þar var kominn Guttormr fóstbróðir hans; varð þar fagnafundr með þeim. Framarr spyrr,

hvaðan hann var atkominn; hann lézt hafa barizt við Snækoll víking; kveðst hafa látit þar bæði menn ok fé, enn komizt sjálfr með sundi í burt, ok spyrr hversu langt nú er til skemmu konungsdóttur. Framarr segir: „Þangat er nú dagganga". „Þat er harðla langt", segir Guttormr. Framarr segir: „Hversu lengi hefir þú svá gengit?" Guttormr segir: „Tvó daga, áðr vit fundumst". Framarr mælti: „Mikill er munr hreysti okkarrar; ek syrgi eina jungfrú, ok fæ hana eigi, ok hefi ek ekki í nokkurn bardaga ratat, enn þú gengr, sem sjá má, at úti eru í þér iðrin, enn ek vilda, at þú kæmir mér í skemmu hennar, ef hún tæki við þér". „Svá skal vera, ef ek má", segir Guttormr. Fara þeir nú þann sama veg, sem Framarr hafði áðr farit, unst þeir koma til skíðgarðsins, ok er þá minni vón manns, þar et Guttormr var; ok sem þeir eru þar komnir, ferr Framarr í burt. Í þenna tíma var einni skemmumeyjunni gengit út í garðinn sinna erinda, ok leit þenna mann, er úti lágu iðrin, ok gengr inn aftr í skemmuna, ok segir konungsdóttur, hversu sá maðr var kominn. Konungsdóttir bregðr við skjótt, ok þær tólf saman, koma at hurðinni; sér nú konungsdóttir þenna mann hinn aumlega, ok hversu sárlega hann var útleikinn, at iðrin lágu úti. Hún spyrr hann at nafni. Hann kveðst Guttormr heita. „Ertu fóstbróðir Sturlaugs konungs?" segir hún. „Sá er maðr hinn sami", segir hann, „ok vilda ek vera biðjandi, at þú veittir mér nokkura hjálp". Hún segir: „Hvat mun ek nær mega komast Sturlaugi, enn græða fóstbróður hans, enn svík þú mik eigi". Eftir þat bera þær hann inn í skemmuna. Konungsdóttir átti sér læknishús lítit, ok var þar harðla ununarsamt inni fyrir sjúkar mannskepnur at vera, hjá mjúktæku kvenfólki ok meðaumkunarsömu at lifa. Gutt-

ormr var í læknishúsi konungsdóttur nokkura hríð, harðla vel haldinn; var konungsdóttir þar sjálf löngum með sínum skemmumeyjum, ok læknaði Guttorm með þeirri list ok kænsku, sem hún nóglega til hafði, ok hafði margan ríkan ok fátækan, konur sem karla, læknat ok heilbrigða gert. Þat var einn dag, at konungr sendi boð dóttur sinni; fór hún þegar með skemmumeyjar sínar til hallarinnar, ok verðr opin skemman eftirlátin, enn aftr skíðgarðrinn, enn hliðit var eigi læst. Framarr sætir þessu, ok kemr þar Guttormr, ok leiðir hann inn í skemmuna, ok í læknishúsit, ok stendr þar undir tjaldinu; líðr á daginn, þar til konungsdóttir kemr í skemmuna, ok þegar gengr hún til Guttorms, ok leysir til sáranna, ok vóru þá mjök gróin: „úti hefir þú verit í dag“, segir konungsdóttir, ok muntu nú hafa svikit mik“; enn er þau talast svá við, hleypr Framarr fram undan tjaldinu, ok tekr annarri hendi undir höku henni, ok annarri undir hnakka, ok kysti hana einn koss. Hún varð við illa, ok biðr þá í burtu vera skjótt: „Vil ek eigi at þit séuð hér drepnir fyrir augum mér sem maklegt væri; Guttormr hefir hér verit um hríð ok nýtr hann Sturlaugs at því, enn ærit hafi þér unnit til líftjóns með þessu ykkru tiltæki, enn mér er vel í þokka við Sturlaug sökum hans atgervis“. Þeir ganga nú svá sem hún mælti; fór Framarr þegar í burtu, ok út til skipa sinna, ok halda nú til Svíþjóðar, ok segja Sturlaugi konungi svá búit sitt mál; biðja hann nú liðsemdar.

XXVII. Hann verðr vel við, ok lét safna liði um alt sitt ríki, ok búa skipaflota mikinn, svá hann fær þrjú hundruð skipa vel búin at öllum kostum; halda síðan til Garðaríkis með mikilli gleði ok prýði; ok er þeir koma við land, hlaupa þeir upp með herinn, drepa

ok deyða, brenna ok bæla menn ok fénað. Enn er svá hafði fram farit um hríð, verða þeir varir við liðsamnað, ok er þeir Snækollr ok Ingvarr konungr verða varir við þetta, þá búast hvórir á móts við aðra; ok sem þeir fundust, varð þar hinn harðasti bardagi ok snörp atganga, at hvórir veittu öðrum. Sturlaugr gekk fram hlífarlauss sem hann var vanr. Þeir fóstbræðr börðust af mikilli dáð ok drengskap; orrusta sú stóð yfir þrjá daga með miklu mannfalli; þar með fell í þessi orrustu fyrir Sturlaugi Ingvarr konungr ok Snækollr; Hvítserkr komst undan á flótta, ok mart manna með honum. Sturlaugr lét þá bregða upp friðskildi, ok fór til Aldeigjuborgar með allan sinn her; var þar mikill glaumr ok gleði ok sigróps háreysti í liði þeirra Sturlaugs, ok borgin öll var í þeirra valdi; gekk fólk alt til griða ok handa Sturlaugi, þat er í var borginni.

XXVIII. Síðan gifti Sturlaugr Framari Ingigerði konungsdóttur; var sú veizla virðuleg fyrir allra hluta sakir, er til þurfti at hafa, enn eftir veizluna vóru þeir fyrirmennirnir burt leystir með góðum gjöfum; skildust svá, ok fór hverr heim til síns heimilis. Sturlaugr gaf þá borgina Aldeigju með öllu fé á vald Framars, er Ingvarr konungr hafði átt, ok þar með konungs nafn; sezt Framarr nú at löndum ok lausum aurum, ok stýrir ríki sínu með beztu manna ráði í því landi, ok er frá þeim Framari ok Ingigerði komin mikil ætt ok mart stórmenni, þó þat greinist eigi í þessarri sögu. Eftir þetta fór Sturlaugr aftr til Svíþjóðar, ok settist at sínu ríki, ok var margfróðr ok fjáðr, ok alla stund var Sturlaugr í sætt við stólkonunginn í Svíþjóð, ok þótti konungi hann vera harðfengr í öllum raunum, því at fóstbræðr hans heldu vináttu ok trygð, á meðan þeir

lifðu allir. Þau Sturlaugr ok Ása áttu tvó sonu; hét annarr Heinrekr, enn annarr Ingólfr; þeir vóru báðir miklir menn ok vænlegir, ok koma við margar sögur; námu allskonar íþróttir þegar á unga aldri. Þeir vóru báðir konungar eftir Sturlaug föður sinn, ok eru margar stórar ættir frá þeim komnar. Sturlaugr varð ellidauðr eftir Friðfróða konung; endast hér með sagan.





# Illuga saga Gríðarfóstra.

---

Sá konungr hefir ráðit fyrir Danmörku, er Hringr hét, hann var Skjaldarson, Dags sonar. Þessi Skjöldr barðist við Hermann, sem segir í sögu þeirra. Hringr konungr var vitr maðr ok vinsæll, ok mildr af fé, ok hinn mesti bardagamaðr. Hann átti drotningu, er Sigríðr hét; hún var dóttir Vilhjálms konungs ór Vallandi. Við henni átti hann þann son, er Sigurðr hét; hann var allra manna fríðastr, ok at íþróttum bezt búinn; hann var blíðr við vini sína, örr af fé, enn grimmr sínum óvinum. Sviði hefir karl nefndr verit; hann átti eitt garðshorn harðla skamt frá konungshöllunni; hann átti kerlingu, er hét Hildr; við henni átti hann einn son, er Illugi hét; hann var mikill vexti ok sterkr at afli; fimr var hann á alla leika. Faðir hans var kallaðr Sviði enn sókndjarfi. Sigurðr konungsson ok Illugi lögðu leika með sér; átti Sigurðr marga leiksveina, ok

bar hann langt af þeim, hvat sem þeir skyldu reyna, enn Illugi vann hann í öllu; ok svá kom at þeir sórust í stallbræðralag, ok skyldi hvórr annars hefna, ef þeir væri með vópnum vegnir; var nú allkært þeirra á milli.

II. Björn hét maðr. Hann var ráðgjafi konungs; honum var alt illa gefit, er honum var sjálfrátt; hann var lyginn ok lymskr at öllu, enn þó eigi at síðr var hann hinn mesti kappi, ok varði land konungs fyrir víkingum, ok því mat konungr hann mikils. Björn öfundaði þat mjök, at Illugi var svá kær Sigurði konungssyni; ok svá kom at hann rægði hann við þá feðga, ok sagði Illuga vera ótrúan konungssyni. Konungr hlýddi á þetta, enn Sigurðr trúði því ekki. Ferr nú svá fram um nokkura tíma, at Sigurðr konungsson er heima hjá föður sínum í mikilli sæmd ok virðingu. Einn tíma bað Sigurðr föður sinn at fá sér skip ok menn, ok segist vilja ór landi, at afla sér fjár ok frægðar. Konungr sagði, at þat skyldi á mánaðarfresti búit vera: „ok Björn skal fara með þér“, segir konungr, „enn Illugi vil ek heima sé“. Sigurður svarar: „At vísu vil ek at Illugi fari“. Enn konungr sagði, Björn skyldi fylgja honum: „því hann er hverjum kappa meiri ok bilar aldri í stríði; hann mun þér vera hollr ok trúr, sem hann hefir mér verit“, sagði konungr, ok skilja þeir nú tal sitt. Eftir þetta gengr konungsson til Sviða ok segir Hildi tal þeirra feðga. Hún segir son sinn ungan vera, ok eigi í hernað fara mega: „er hann ok ekki reyndr“, segir hún, „vilda ek ok ekki heldr, at Björn brygði honum því, at hann þyrði ekki at berjast með þér í orrustu“; lýkr Hildr svá máli, enn konungsson ferr heim til hallar, ok er mjök óglaðr. Ambátt sú var hjá Hildi, er Sunnlöð hét; hún var fjöl-

kunnug, ok en mesta kvöldriða. Hún hafði margan mann illa leikit. Hildr kemr at máli við Illuga, ok biðr hann sækja pál í sel, er Sviði lét eftir. Hann játar því. Þat var síð dags, er Illugi gekk heiman. Hann fór hart, ok kom til seljanna, ok fann þar pálinn; þá var myrkt af nótt, ok ferr þó frá selinu; ok er hann var skamt kominn, var hlaupit á bak honum svá hart, at hælarnir koma framan á bringuna. Þetta kvikindi hafði vönd í hendi ok barði Illuga með. Hér var komin Sunnlöð. Illugi gengr ekki at síðr, ok bar flagð þetta langa leið, þar til hann kemr at einum stórum steini. Hann keyrir flagðit niðr við steininn, svá hart at hryggrinn brotnar, ok lèt hún svá líf sitt. Létti hann eigi sinni ferð fyrr enn hann kemr heim. Hildr móðir hans var úti er hann kom heim. Illugi var þá ófrýnn. Hildr var þá blíð. „Hafa nokkur nýtíðindi gerzt í þinni ferð, son minn?“ sagði hún. „Fanstu pálinn, sem ek vísaði þér á?“ „Já“, segir Illugi. Hún mælti: „Fanstu nokkut stúlku mína, er ek sendi at afla mér eldiviðar“. Illugi sagði: „Varla ætla ek verri stúlka finnist, því at hún reið mér, enn ek banaða henni með þeim hætti, at ek braut í henni hrygginn við stein“. Hildr kvað hann mega vera í sendiferðum: „ok vil ek“ segir hún, „at þú þjónir Sigurði konungssyni, ok fylgir honum í víkingu“. Illugi játar því blíðlega ok gladdist við þetta, ok gengr inn með móður sinni ok sefr af nótt. At morgni býst Illugi at fara til konungshallar; kveðr áðr föður sinn ok móður; gengr síðan til hallarinnar ok kemr þar þá konungr er yfir dagdrykkju; hann gengr fyrir konung ok kveðr hann vel. Konungr tekr honum vel. Enn er Sigurðr konungsson sér Illuga, fagnar hann honum forkunnar vel, ok biðr hann sitja hjá sér. Illugi gerir nú

svá. Ferr svá fram nokkura daga, at Sigurðr er heima með föður sínum ok Illugi.

III. Nú kemr sá tími, er skip Sigurðar vóru búin; halda þeir frá landi; var það þá ráðit, at Björn ok Illugi skyldu báðir fara. Tekr konungsson nú orlof af feðr sínum; sigla nú fyrst til Orkneyja ok Skotlands, ok gera hvórttveggja margar upprásir, ok vinna mikinn sigr á Skottum; fá nú of fjár; leggja þeir hvergi þar til, at eigi hafi þeir sigr; var alt fólk við þá hrætt. At hausti vill Sigurðr heim halda, ok þá rekr á storm mikinn; tók þá skipit at ganga of mikit; rekr þá norðr í haf; herti seglit, svá helt við rif; tekr nú hvert band at slitna; þeir sjá hvergi landa til; sjórinn tekr nú at ókyrrast, ok gerði svá stóran storm, at inn rann á bæði borð, enn svá vóru þeir allir hraustir, sem á þessu skipi vóru, at engi talaði æðruorð. Skipit tekr nú mjök at leka, ok standa allir í austri átta dægr; skip rekr langt norðr í haf í vík þá, er Gandvík hét. Þeir herða þá seglit með sterku bandi, ok fá nú stór áföll, svá búit var við at brjóta skipit; flestir vóru þá móðir. Því næst sjá þeir land; þat var björgum lukt; síðan rekr upp skipit í eina vík; heldu þeir heilu skipi ok mönnum. Konungsson segir, at þeir skuli þar bíða byrjar. Flestir hans menn vóru at þrotum komnir af erfiði; þeim var ok svá kalt, at þeim þótti dauðinn sýnn ok vęra fyrir hendi, því at þeir höfðu öngvan eld. Sigurðr konungsson bar sik furðu vel, enn allir vildu gjarna ná eldi ok fengu þó eigi. Björn tók þá mjök at kala, ok mælti svá: „Þú, Illugi", segir hann, „skalt róa yfir fjörð þenna, ok leita at eldi, ok ef þú finnr hann eigi, þá skal ek ráða fyrir höfði þínu, enn ef þú náir eldinum, þá skaltu eiga hring þenna, er ek

held á“. Illugi svarar: „Víst eigi vil ek veðja höfði mínu við þik, Björn, enn gjarna skal ek at eldi leita, ef vórum mönnum má gagn at verða“. Rær hann nú einnsaman burt frá sínum mönnum.

IV. Hellir nokkurr stóð öðrummegin fjarðar þessa, er réð fyrir tröllkona sú, er Gríðr hét; hún var hin mesta tröllkona. Illugi kemr nú at landi, ok festir bát sinn, ok gengr á land upp, ok kemr í hellinn; þá var komit kveld. Hann heyrir þá, at hart er stigit til jarðar, ok kemr Gríðr heim. Hún frétti hann at heiti; hann segist Illugi heita, enn honum þótti sem hríð eða hregg stæði ór nösum hennar; horinn hekk ofan fyrir munninn; hún hafði skegg, ok skollótt um höfuðit; hendr hennar vóru sem arnarklær, enn ermar báðar brendar, enn sá stakkr, er hún var í, tók henni eigi lengra enn enn á lendar á bakit, enn alt á tær í fyrir; augu hennar vóru græn, enn ennit bratt, eyrum fellu víða; enginn mátti hana kalla fríða. Illugi segist vilja eld sækja til hennar. Gríðr svarar: „Öngvan eld fær þú af mér, nema þú mælir mér þrjú sannyrði, ok ef þú gerir þetta skjótt, þá skaltu liggja hjá dóttur minni, enn ef þú vilt eigi þennan kost, þá hirði ek eigi, þó Björn kali til dauða“. Illugi segist þetta vilja. Eftir þetta gengr fram ein kona; hún er svá fríð, at Illugi þóttist öngva fríðari sét hafa; ok þegar er hann sá hana, feldi hann mikla ást til hennar; hún var hljóð ok fáræðin. Illugi tók þá til máls: „Mér mun mál“, segir hann, „at fá sannyrðin: hellir þinn er hár og breiðr, at ek hefi eigi sét hús meira né sterkara; svá er ok nefit á þér mikit, at ek hefi eigi sét meira skrípi, enn þú ert ok svá svört, at fagrt er gólfit hjá þér, ok öngva hefi ek ámátlegri sét enn þik, ok víst er dóttir þín fegri, ok ykkar hefi ek sét mestan mun, ok svá munu allir

segja er ykkr sjá". Gríðr mælti þá: „Víst er þat", segir hún, „at hvórki viltu lofa mik né hæla mér, ok ekki lízt þér svá illa á mik, sem þú lætr, enn þat þyki mér nú ráð, at þú farir í hvílu með dóttur minni, ok leik alt þat, er þik lystir, því at þér lízt betr á dóttur mína enn á mik". „Nú mun skjótt at öllu farit", segir Gríðr, „ok þarf ekki lengi lýsingar". Illugi segir svá vera skyldu; gengr hann at hvílunni, ok kastar klæðum, enn kerling þjónar dóttur sinni, ok kómu þau í eina hvílu bæði. Illugi snýst at henni, ok gerir sik blíðan, enn hún gerir öngva gleði af sér; þrífr Gríðr þá í hár Illuga, ok kippir honum fram á stokkinn, enn annarri hendi brá hún björtu saxi ok mjök bitrlegu, ok reiddi at höfði honum, enn Illugi lá kyrr, ok hrærði hvergi á sér. Gríðr mælti þá mjök reiðulega: „Heyr þú vóndr herjansson, hví hugðir þú ek munda þola, at þú blygðaðir dóttur mína; nei", segir hún, „þú skalt fá dauðann í stað". Illugi mælti þá: „Mitt hjarta hefir aldri hrætt orðit, ok því kom ek í helli þinn, at örlögin hafa svá fyrir ætlat; þó deyr enginn oftar enn um sinn, ok því hræðumst ek ekki þínar ógnir". Við þessi hans orð kastar Gríðr honum aftr. Hann snerist þá at brúði sinni, ok var þá allglaðr; ok er hann var sem blíðastr við hana, vefr Gríðr hár hans um hönd sér, ok kippir honum á stokkinn fram, ok reiðir saxit alt at höfði honum: „djarfr ertu, ok nú í stað skaltu dauðann fá"; enn Illugi sagðist eigi hræðast dauða sinn. Hún mælti hlæjandi: „Öngvan hefi ek slíkan hitt, at eigi hafi hræzt dauða sinn, nema þik; far þú nú til svefns, ok sof vel!" Ferr Illugi nú, ok snýst at konu sinni, ok er nú allra blíðastr við hana. Gríðr hleypr þá enn at sænginni, ok kippir honum fram á stokkinn; hún reiðir nú saxit, ok mjök er hún ófrýnleg at sjá, enn

alt fór sem fyrr, at Illugi kvaðst eigi hræðast. Gríðr mælti þá: „Eigi ertu sem aðrir menn, þínar æðar skelfast hvergi, ok þú hræðist ekki; nú skaltu þiggja líf af mér, ok þar með gef ek þér dóttur mína, er Hildr heitir, ok fæ ek þó aldri launat þinn velgerning, því at þú hefir komit mér ór miklum álögum, því at með slíkum hætti hefi ek margan myrt ok drepit, ok hafa allir hræzt mitt hit ógurlega sax. Sextán vaska menn hefi ek drepit með þessu saxi, ok væri slíkt þó eigi kvenna verk; nú mun ek segja þér ævisögu mína, enn þú hlýða".

V. „Konungr sá réð fyrir Álfheimum, er Áli hét; hann átti sér drotningu, er Álfrún hét; þau áttu dóttur eina, sú hét Signý; hún var at öllu vel at sér. Þegar Signý hafði aldr til, var hún gift þeim konungi, er Eirekr hét; hann fell í vestrvíking. Dóttur áttu þau saman, þá er Hildr hét, ok var hún meyja fríðust; fór Signý þá til föður síns ok var með honum. Drotning fekk sótt, þá hana leiddi til bana, enn konungr barst lítt af, enn Signý var í skemmu, ok hafði sorg mikla eftir konung sinn ok móður. Konungr fekk þá drotningu er Grímhildr hét; hún var fögr at sjá, enn innan var hún et mesta flagð. Konungr unni henni mikit; þau gátu at eiga sjau dætr, ok brá þeim öllum til móður sinnar ok urðu enar mestu flagðkonur. Þat bar til í ríkinu við kvómu Grímhildar, at maðr hvarf hverja nótt, ok ætluðu allir, at Grímhildr mundi því valda. Konungr tók nú at eldast, ok þótti drotningu minna verða af hjáhvílum, enn hún vildi; hugsar hún nú at svíkja konung, ok fá sér annan ungan; gefr hún honum nú eitr at drekka, ok fær hann þegar bana af, ok var hann heygðr hjá drotningu sinni. Grímhildr ilskaðist nú svá, at hún eyddi alt ríkit bæði af fé ok mönn-

um. Eftir þessi verk Grímhildar gekk hún til skemmu þeirrar, er Signý sat ok dóttir hennar, enn er hún kemr þar, mælti hún svá: ‚Þú, Signý‘, segir hún, ‚hefir lengi í sæmd mikilli ok sælu setit, enn ek skal þat alt af þér taka, ok þat legg ek á þik, at þú hverfir í burt ok byggir í helli, ok verðir hin mesta tröllkona; þú skalt Gríðr nefnast; dóttir þín skal fara með þér, ok hverr maðr, sem hana lítr, skal fella til hennar mikla ást; þú skalt hvern myrða, er þú sér í hennar sæng; þú hefir átt þér sjau systur; þær skulu hverja nótt eiga við þik bardaga; þær skulu allavega þik sundra, höggva ok meiða, enn aldri at heldr skaltu deyja, ok aldri skaltu fyrr frelsast af þessum álögum, enn þú hittir þann mann, er eigi hræðist þitt hit ógurlega sax, þá er þú reiðir þat; enn með því at þeim mun þat ógurlegt sýnast, mun sá ekki finnast‘. Signý mátti ekki mæla fyrir harmi ok gráti. Hildr mælti þá: ‚Vilda ek, Grímhildr, at ek launaði þér þín álög, ok þat mæli ek um, at öðrum fæti standir þú á skemmu þessarri, enn öðrum heima á konungshöll; þrælar skulu þar kynda bál mikit í milli fóta þér; þat bál skal standa bæði nætr ok daga, ok öll skaltu neðan af eldi brenna, enn ofan frjósa, at aldri fáir þú þína ró; enn ef vit mæðgur komumst ór þessum álögum, þá skaltu deyja, ok detta ofan í bálit‘. Grímhildr tók þá til máls: ‚Mjök heimsklegt er okkart tal, ok vil ek at þetta haldist hvórki‘. Hildr sagði at þat yrði at standa. Hurfu þær mæðgur þá burt í helli þenna, ok (er ek sú hin sama Signý), ok er hér Hildr, dóttir mín, ok vil ek nú gifta þér hana, ok launa þér svá, at þú hefir mér ór álögum komit“. Ok at endaðri þessarri sögu koma í hellinn sjau skessur með bitrlegum skálmum, ok hlaupa at Gríði, ok höggva til hennar bæði hart ok tíðum. Hildr var nú

ákaflega hrædd. Illugi veitir Gríði dugnað, ok höggr til þeirra bæði ótt ok tíðum, ok eigi léttir hann fyrr, enn þau hafa drepit þær allar, ok brennir þær allar á báli. Gríðr mælti þá: „Nú hefir þú, Illugi, frelst okkr bæði af þessum skessum, ok hefi ek við þær átt ellifu vetr“. Illugi segir þat nógu lengi verit hafa.

VI. Eftir þetta fylgir Gríðr þeim til báts Illuga, ok gaf hún þeim gull ok marga dýra gripi, ok hafði hann nú með sér eldinn, ok skildist hún þar við þau. Illugi rær aftr til sinna manna; þeir urðu við þat glaðir, ok létu sér hitna. Mánuð lá konungsson þar, ok gaf honum aldri byr. Björn kendi þat Hildi, ok kvað Illuga hana hafa sótta í hella, ok segir Björn, at hún sé hin mesta tröllkona. Sigurðr bað Björn þegja, ok ekki vildi hann því trúa, er Björn sagði. Eina nótt var þat, er menn konungssonar sváfu á skipi; enn er þeir vakna, sjá þeir at Björn er horfinn, ok leituðu, ok sjá um síðir, at hann hangir upp við siglurá. Þeir vissu ekki, hverju þetta gegndi um líflát Bjarnar, enn Gríðr hafði hengt Björn á þeirri nótt, fyrir þat hann kallaði Hildi tröllkonu. Eftir þat siglir Sigurðr frá Finnmörk, ok gaf honum þá vel byr, ok kom heim til Danmerkr, ok hafði fengit of fjár, ok gaf gull á tvær hendr. Er hann nú heima með föður sínum. Illugi var löngum með Sigurði, enn þó átti hann stóran búgarð nærri konungshöllinni. Litlu síðar tók Hringr konungr sótt, þá er hann leiddi til bana. Sigurðr lætr þegar erfi drekka eftir föður sinn, ok lætr tilbjóða öllum beztu mönnum í landinu, ok var Sigurðr þá til konungs tekinn yfir þat ríki, er faðir hans hafði átt. Hringr konungr hafði verit fylkiskonungr í Danmörku, ok hafði hann ráðit fyrir Skán. Signý kemr nú til Danmerkr, ok tók Illugi vel við henni ok þau Hildr. Illugi segir

þá öll deili á henni. Sigurðr konungr bað hennar sér til handa. Signý segir, at Illugi skuli vera hennar giftingarmaðr. Sigurðr talar þá þetta mál við hann, ok með samþykki hennar giftir Illugi honum Signýju. Vóru þeirra samfarir góðar, ok áttu þau mörg börn, ok urðu öll mikilsháttar menn. Sigurðr konungr ok Signý drotning lifðu mjök lengi, enn Illugi lifði lengr; enn ekki hefir verit getit barna þeirra Hildar. Þessi Illugi varð síðan fóstbróðir Gnoðar-Ásmundar, ok lúkum vér þessi sögu.



# Eireks saga víðförla.

---

Þrándr er nefndr konungr sá, er fystr réð firir Þrándheimi. Hann átti son þann er Eirekr hét; hann var vinsæll maðr þegar á unga aldri. Hann var ramr at afli, frækn ok framr at öllu; drengilegr í vexti. Þess er getit eitt jólakveld, þá strengdi Eirekr þess heit, at fara um allan heim at leita, ef hann fyndi stað þann, er heiðnir menn kalla Ódáinsakr, enn kristnir menn jörð lifandi manna eðr Paradísum. Þessi heitstrenging verðr fræg um allan Noreg. Á næsta sumri eftir býr Eirekr skip eitt skrautlegt af Noregi, ok helt til Danmerkr. Þeir vóru .xij. á skipi. Danakonungr átti sér son; sá hét ok Eirekr. Þeir feðgar buðu Eireki Þrándarsyni með sér at vera þann vetr ok þá hann þat. Þeir nafnar lögðu lag sitt saman ok var með þeim vel ok at mörgu vóru þeir líkir. Ok um várit eftir réðst Eirekr danski í ferð með nafna sínum. Vóru þeir ok .xij. sama(n). Sigldu nú ok ætla til Mikla-

garðs ok þar koma þeir í þann tíma, sem Grikkja konungr bauð út her í móti víkingum, er gengu mjök á ríki hans. Ok er Grikkja konungr frétti kvómu Norðmanna, býðr hann þeim til sín ok tók við þeim veglega; frétti þá eftir hverir þeir sé eða hvaðan þeir væri komnir eða hvert þeir ætlaði at fara. Eirekr segir, at þeir væri Norðmenn ok konunga synir ok ætlaði at kanna víða heim. Þá tígnaði Grikkja konungr þá forkunnar vel í öllum hlutum. Enn er þeir höfðu þar verit nokkura hríð, þá unnu þeir mörg stórvirki með vitrlegum ráðum, ok miklum röskleika ok studdu stórlega vel ríki Grikkja konungs. Enn er konungr sá at þeir vóru sterkari enn velflestir aðrir landsmenn, þá virðir hann þá í öllu framar ok lagði á þá mikla virðing ok gerði þá sína þjónustumenn ok gaf þeim mestan mála allra sinna manna. Svá er sagt, at þar af gerðist fyst Norðmanna sómi út í Miklagarði.

Spurningar Eireks við konung. Capitulum. II. Þat var sagt, at einn dag spurði Eirekr norræni konung, hverr gert hefði himinn eðr jörð. Konungr segir: „Einn gerði hvórttveggja“. Eirekr spurði: „Hverr er sá“. Konungr svarar: „Guð almáttigr sá er einn guð í guðdómi, enn þrennr í greiningu“. Eirekr mælti: „Hverjar eru þær þrjár greiningar“. Konungr segir: „Líttu í sólina; í henni eru þrjár greinir, eldr, birti ok vermir, ok er þó ein sól; svá er ok í guði faðir ok son ok heilagr andi, ok er hann þó einn í sínum almætti“. Eirekr mælti: „Þó er mikill guð sjá, er gerði himinn ok jörð; seg mér nú nokkut af mikilleik hans“. Konungr mælti: „Guð er einn óumræðilegr ok óyfirstíganlegr. Hann er yfir öllum hlutum ok þolir alla hluti ok hann heldr öll endimörk jarðar með sinni hendi“. Eirekr mælti: „Hvórt veit guð alla hluti“. Konungr segir: „Einn veit hann

alt sem í hans augliti sé". Enn er konungr hafði þetta mælt, þá undraðist Eirekr mikilleik guðs. Eirekr mælti: „Hvórt býr guð á himni eðr jörðu". Konungr segir: „Á himnum ríkir hann ok þar er hans veldi; þar er eigi sótt né þytr, eigi dauði, eigi hryggleikr ok eigi vesöld. Þar er jafnan fagnaðr ok eilíf sæla ok gleði með himneskum krásum án enda". Eirekr mælti: „Hverir eru þar með guði". Konungr segir: „Helgir englar eru þar; þá skapaði guð sér til þjónustu í fystu. Guð almáttigr gerði sér bjarta höll; þá höll kallaði hann himnaríki; síðan gerði hann myrkvastofu; þat er þessi heimr, er vér byggjum. Í honum setti guð djúpa gröf; þat er helvíti. Í þeim stað er hvers kyns vesöld með eldi ok þar kveljast andir ranglátra manna. Fyrir þeirri gröf ræðr Satan óvin alls mannkyns, enn guð almáttigr batt hann ramlega eftir písl sína. Síðan reis hann upp á þriðja degi eftir sinn líkams dauða. Enn á fertuganda degi steig hann upp til himnaríkis, er öllum (út)völdum guðs er firir búit, riddarum ok hirðsveitum, ok þar er öllum skylt til at stunda ok fylla þat skarð, er þá varð, er englarnir spiltust, enn guð mun þá tölu fylla með hreinlífis mönnum". Eirekr mælti: „Hver er gröf sú, er þú mæltir at í jörðu væri". Konungr segir: „Þat er jörð dauðans, er firir er búin syndugum mönnum ok kallast þat helvíti. Í þeim stað er hvers kyns vesöld með eldi eilífum; þar kveljast vóndir menn". Eirekr mælti: „Hverir eru þeir". Konungr segir: „Heiðnir menn allir ok guðníðingar", Eirekr mælti: „Hví eru allir heiðnir menn illir". Konungr segir: „Því at þeir vilja eigi göfga guð skapara sinn". Eirekr mælti: „Er eigi þat guð, er vér göfgum". (Konungr segir:) „Eigi er þat guð, því at frá þeim (er) sagt vesölum, hve illa þeir dó eðr hversu glæpafult líf þeir fram leiddu með-

an þeir lifðu. Þeirra andir eru nú í eilífum eldi ok óslökkvanlegum kvölum". Eirekr mælti þá: „Aldri heyrða ek slíka hluti fyrr frá þeim sagða". Konungr segir: „Villr eru í trúnni, at þú heyrðir eigi slíkt sagt, enn ef þú vill á eilífan guð trúa, þann er í þrenningu er, þá muntu eftir dauðann með honum fara í eilífa sælu". Eirekr mælti: „Þess æski ek, at ek öðlist eilíft líf eftir dauðann". Konungr mælti: „Þessi ósk veitist þér ef þú trúir á eilífan guð í þrenningu ok takir þá heilaga skírn ok verðr þú þá lífgaðr af holdi hans ok blóði ok gerist þú vinr guðs. Tak við kristni ok heiðra hann í öllum hlutum réttlega". Eirekr mælti: „Þat samir at gera sem þú eggjar. Seg þú mér þat er ek spyr þik: hvar er helvíti?" Konungr segir: „Undir jörðu". Eirekr mælti: „Hvat er yfir jörðu". Konungr segir: „Loft". Eirekr mælti: „Hvat er yfir lofti".. Konungr segir: „Festingarhiminn; í þeim himni eru öll himintungl svá sem brennandi eldr". Eirekr mælti: "Hvat er yfir festingarhimni". Konungr mælti: „Vötn eru þar fest sem ský". Eirekr mælti: „Hvat er yfir þeim vötnum". Konungr segir: „Andlegr himinn, ok því trúa menn at englar búi þar". Eirekr mælti: „Hvat er yfir þeim himni". Konungr svarar: „Skilningarhiminn; í þeim himni má líta sjálfan guð ok hans veldi, þeir sem þess eru maklegir". Þá undrast Eirekr, hversu vitr konungr var ok mælti: „Þó er mikil ok háleit ok óyfirstíganleg þín spekt; seg þú ef þú veizt, hversu mikil er breidd jarðarinnar". Konungr mælti: „Forvitinn ertu, Eirekr, ok margra hluta viltu víss verða, þeirra sem ónauðsynlegir eru ok fáheyrðir ok mjök ókunnir. Enn til þess at ek fylli spurning þína, þá heyr þú hvat er ek segi þér ok nem eftir.

Umhverfis jörðina telja fróðir menn hundrað þúsunda rasta ok átta tigi þúsunda ok halda henni öngvir stólpar upp, heldr guðlegr almáttr". Eirekr mælti: „Hversu langt er milli himins ok jarðar". Konungr svarar: „Forvitin(n) ertu; þat er kallat at af jörðu sé alt til hins efsta himins hundrað þúsunda mílna ok þrjú hundruð ok hálfr níundi tögr mílna". Eirekr mælti: „Hvat er utan um jörðina", Konungr segir: „Mikill sjór er oceanum heitir". Eirekr mælti: „Hvert er yzt land í suðrhálfu heimsins?" Konungr svarar: „Indíaland segjum vér enda á löndum í þá hálfu heims". Eirekr mælti: „Hvar er sá staðr, er Ódáinsakr heitir". Konungr segir: „Paradisum köllum vér svá eðr jörð lifandi". Eirekr mælti: „Hvar er sá staðr". Konungr segir: „Í austr er land frá Indíalandi hinu yzta". Eirekr mælti: „Má komast þangat". „Víst eigi", segir konungr, „því at eldlegr veggr stendr fyrir, sá tekr alt til himins upp". Enn er þetta ok mart annat hafði konungr sagt Eireki, þá lét hann fallast til fóta konungi ok mælti: „Ek biðr þik, hinn bezti konungr, at firir fullting yðvart greiðist ferð mín, því at mér (er) nauðsyn á hendi at efna heitstrenging mína, því at ek strengdi þes(s) heit at fara suðr í heima at leita Ódáinsakrs, enn ek veit at ek má at öngum kosti komast þangat utan ek njóti yðvars fulltings við". Konungr segir: „Vertu hér þrjá vetr með oss hina næstu ok far síðan, því at nauðsyn er at þér verði hjálp at mínum ráðum ok hlýð þú mínum fortölum í öllu; tak við skírn ok mun ek þá fulltingja þér". Eirekr spurði konung vandlega at ömbun réttlætis eðr píslum helvítis. Hann spurði ok að yfirbragði þjóða ok grein landa, frá höfum ok útlöndum ok frá allri austrálfu heimsins ok suðrhálfu, frá konungum stórum, ok frá ýmissum eyjum,

frá auðn landa ok frá þeim stöðum, er þeir áttu ferð yfir, frá mönnum undarlegum ok búningi þeirra ok siðum margra þjóða, frá höggormum ok flugdrekum ok alls kyns dýrum ok fuglum, frá gnótt gulls ok gimsteina. Þessar spurningar ok margar aðrar leysti konungr vel ok fróðlega. Eftir þetta vóru þeir skírðir Eirekr ok hans menn.

Skilnaðr þeirra nafna við steinbogann. III. At liðnum þrem vetrum, þá er Eirekr hafði numit slíkan fróðleik ok margan annan, þá fóru þeir með lið sitt til Sýrlands ok höfðu innsigli Grikkjakonungs, enn eftir þat fara þeir ýmist á skipum eðr hestum, enn gengu þó oftast. Fara svá nokkura vetr til þess er þeir koma til hins yzta Indíalands. Enn hvar sem þeir koma á ókunnug lönd, þá var við þeim vel tekit ok allr lýðr greiddi ferð þeirra, því at þeir höfðu með sér bréf ok innsigli Grikkjakonungs ok patriarche ór Miklagarði, ritat á allar tungur þeirra þjóða, sem vón var at þeir mundi koma til. Þat var ok sagt hverir þeir vóru eðr hvert þeir ætlaði at fara, ok sýndist í því, hversu mikil guðs gifta þeim fylgdi ok hverr guðs vinr Grikkja konungr var, at hvar sem hans bréf sást, þá skyldi þeim sæmdir veita, enn hvergi grand gera, því at guðs miskunn hlífði þeim Eireki ok hans förunautum, ok gæfa Grikkjakonungs skýldi þeim mjök af spaklegum ráðum hans við erfiði leiðarinnar. Enn er þeir höfðu svá lengi farit um heruð Indíalands .iiij. mílur ins .v. tigar, þá koma þeir um síðir til myrkva heraða, þeirra sem jafnglögt sá stjörnu um daga sem nætr. Víða þar á landi fundu þeir gullstaup mikil. Þar litu þeir ok mörg undr á því landi, enn er þeir höfðu lengi gengit þykkva skóga ok undarlega háva, þá koma þeir um síðir fram ór

mörkinni. Þá tók at lýsa ok ljóst at gera ok litu firir sér á mikla. Á henni var steinbogi. Öðru megin árinnar sá þeir land fagrt með miklum blóma ok gnótt hunangs ok kendu þaðan sætan ilm. Þangat var bjart at líta. Öngva sá þeir hæð né hól né fjall á því landi. Þat skilr Eirekr at á sú mun skilja þessi lönd at frásögn Grikkjakonungs. Þat kom konum í hug, at á sú mundi falla ór Paradiso ok heita Phison. Enn er þeir drógust at steinboganum, þá sá þeir at dreki ógurlegr lá á honum ok gapti munninum ok þótti þeim hann gífrlega láta. Þá sneri Eirekr þar til ok ætlaði nokkurs konar yfir ána at komast. Enn er Eirekr danski sá þetta, þá bannaði hann nafna sínum at fara ok kvað drekann munda svelgja hann þegar. Eirekr hinn norræni sagðist eigi óttast mundu drekann, „ok eigi skal hann hefta ferð mína“. Eirekr danski mælti: „Ek biðr þik, hinn bezti vin, at þú sel þik eigi til dauða, heldr far þú aftr með oss, því at þú munt þegar deyja at þú stígr fram“. Eirekr kveðst eigi mundi aftr hverfa ok mæltu hvórir þá vel firir öðrum. Nú bregðr Eirekr norræni sverði ok heldr á því hinni hægri hendi, enn tekr hinni vinstri í hönd förunaut sínum einum. Þeir ráða til ok hlaupa í munn drekanum, ok sýndist Eireki danska sem drekinn sylgi þá báða. Snýr hann nú aftr með sínum förunautum hina sömu leið, ok eftir marga vetr liðna kemr hann til sinna áttjarða. Sagði síðan hvat hann lézt síðast sét hafa til Eireks norræna. Nú verðr þessi maðr frægr af ferð sinni, ok þótti hinn mesti rausnarmaðr ok lýkr þar frá honum at segja.

Sýnir ok vitranir Eireks in paradiso. Capitulum. IV. Enn er Eirekr norræni ok hans förunautr höfðu hlaupit í munn drekanum, þá þótti þeim sem þeir væði reyk, ok er

liðu ór þeim reyk, þá sá þeir fagrt land, grösin hvít sem purpuri við sætum ilm ok miklum blóma, ok flutu hunangslækir um alla vegu landsins. Þetta land var langt ok slétt; sólskin var þar svá, at aldri var þar myrkt ok aldri bar skugga á. Logn var þar í lofti, enn lítill vindr á jörðu til þess at þá kendi hinn sæta ilm heldr enn áðr. Þeir gengu mjök lengi, ok hugðu at ef þeir sæi þar nokkurar bygðir eðr heruð, eðr mætti þeir vita, hversu vítt at væri land þetta. Sá þeir þá því líkast sem stöpull væri ok hengi í loftinu ok öngvir stólpar undir. Þeir nálgast þangat. Þar sá þeir at hekk á turn í loftinu á öngum stólpum. Sunnan við turninn stóð stigi. Þeir undruðust mjök þenna kraft ok þótti þetta kynlegt. Gengu síðan upp í stigann ok kvómu í turninn. Þeir sá hann hinum fegrstum guðvefjar pellum búinn. Þar stóð borð búit fagrt ok stóð á silfrdiskr; á honum vóru alls konar krásir ok hann var hlaðinn af hvítu brauði með sætum ilm. Kanna var þar sett með gulli ok gimsteinum. Kaleikr var þar fullr af víni. Rekkjur vóru þar vel búnar ok breiddar gullofnum klæðum ok guðvefjar pellum. Þá mælti Eirekr: „Sé hér Ódáinsakr, er vér leitaðum með miklu erfiði margan veg". Þeir lofuðu guð ok mæltu: „Mikill er guð ok góðr, er hann lætr okkr slíkt sjá. Enn eftir þat neyttu þeir fæzlu ok fóru til svefns síðan. Enn er Eirekr sofnaði, þá vitraðist honum ungr drengr, vænn ok bjartr. Sá mælti við hann: „Mikil er staðfesti trúar þinnar (Eirekr); seg þú mér, hversu þér lízt land þetta". Eirekr segir: „Óskavel, ok hverju landi líkar mér þetta betr, enn hverr er þú, er við mik mælir ok skilr mikit okkra vizku, er þú kennir mik ok nefnir mik á nafn, enn ek veit eigi hverr þú ert". Þá lét hinn ungi maðr við hann blíðlega ok mælti: „Ek

er engill guðs ok einn af þeim er varðveita Paradísar hlið. Ek var nær staddr, þá er þú strengdir heit at fara suðr í heim at leita Ódáinsakrs; eggjaða ek þik at sigla til Miklagarðs, ok at guðs forsjá ok mínum vilja tók þú skírn, ok firir því tel ek þik sælan at þú hlýddir þrifsamlegum áminningum Grikkjakonungs ok ráðum ok tókt innsigli af honum ok þótt þik i hinnihelgu Jórdan. Enn dróttinn sendi mik til þín; ek er varðhaldsengill þin(n) ok ek hefi þér hlíft á sjó ok á landi ok við allri háskasamlegri ferð, ok varðveitt þik við öllum illum hlutum. Enn vér erum eigi menn, heldr andar byggjandi á himneskri fóstrjörðu. Enn sá staðr, er þú sér hér, er sem eyðimörk til at jafna við Paradisum, enn skamt heðan er sá staðr ok fellr þaðan á sú er þú sátt. Þangat skulu öngvir lífs koma, ok skulu þar byggja andar réttlátra mannna. Enn sá staðr, er þú hefir hittan, heitir jörð lifandi manna. Enn áðr þú komt hingat, bauð guð oss at vakta þenna stað ok sýna þér jörð lifandi manna með nokkurri mynd ok gera þér veizlu ok launa þér erfiði þitt". Þá spurði Eirekr engilinn: „Hvar býr þú?" Engillinn segir: „Vér búum á himni þar sem vér sjám andlegan guð, enn fyrir nauðsynja sakir eru vér sendir í heimin(n), at veita mönnum vóra þjónustu, sem þú skalt eigi gruna. Eirekr mælti: „Hvat heldr upp þessum stöpli, er mér sýnist hanga í lofti?" Engillinn segir: „Einn saman guðs kraftr heldr honum upp; af slíkum táknum skaltu eigi gruna, at guð skapaði alla hluti af öngu". Eirekr mælti: „Eigi skal ek þat gruna". Engillinn spurði Eirek: „Hvórt viltu hér vera eftir, eða viltu aftr hverfa til þinna áttjarða". Eirekr svarar: „Aftr vil ek hverfa". Engillinn mælti: „Hví viltu þat?" Eirekr segir: „Því at ek vil segja kunningjum mínum frá slíkum dýrðarverkum dróttinslegs máttar,

enn ef ek kem eigi aftr, þá munu þeir því trúa, at ek hafi illum dauða dáit“. Engillinn mælti: „Þó at nú sé goðablót á Norðrlöndum, þá mun þó koma sú tíð, at þat fólk mun leysast frá villu ok man guð kalla þat til sinnar trúar“. Nú gef ek þér leyfi til aftr at fara til þinna ættjarða ok at segja þínum vinum frá guðs miskunn, þeirri sem þú sátt ok heyrðir, því skjótara munu þeir trúa guðs erindi ok öllum hans boðorðum, er þeir heyra þvílíkar sögur. Vertu oft á bænum; mun ek þá koma eftir þér nokkurum vetrum síðar ok bera önd þína í fagnað ok varðveita bein þín í þeim stað, sem þau skulu dóms bíða. Vertu hér sex daga ok hvílið ykkr ok takið síðan leiðarnest ok farið norðr aftr síðan. Nú þótti honum engillinn hverfa sér at sýn. Eirekr gerði alla hluti, sem engillinn hafði boðit honum, um þarvist sína ok brottferð.

Andlát Eireks víðförla. V. Eftir ákveðna tíð stigu þeir ór turninum ok fara unz þeir koma til árinnar. Þá slær yfir þá myrkva miklum. Þeir koma fram ór munni drekanum ok hefja síðan upp ferð sína ok sjá mörg undr, ok þó er þeim at öngum mein, ok verða vísir margs fróðleiks, ok koma eftir fjóra vetr liðna til Miklagarðs ok segir Eirekr konungi sína ferð ok þótti harðla vænt um er hann var aftr kominn ok lætr konungr Eirek vera þar þrjá vetr. Eftir þat býr Eirekr ferð sína ór Miklagarði ok ferr norðr í Noreg ok verðr allr lýðr honum feginn. Hann var þar tíu vetr, ok á hinum ellifta vetri einnhvern dag snemma fór hann til bænar. Þá greip hann guðs andi ok var hans leitat ok fanst hann eigi. Eirekr hafði sagt förunaut sínum draum sinn, þann er hann hafði dreymt í turninum, ok þetta sagði sá maðr, ok trúði sá maðr at engill guðs

mundi tekit hafa Eirek ok varðveitt hann. Þessi Eirekr var kallaðr hinn víðförli. Þessa sögu hafa margir sannfróðlega eftir orðum hans sjálfs. Nú lúkum vér þar sögu þessi.

---

(En)n því setti sá þetta ævintýr fyrst í þessa bók, er hana skrifaði, at hann vill at hverr maðr viti þat, at ekki er traust trútt nema af guði, því at þó at heiðnir menn fái frægð mikla af sínum afreksverkum, þá er þat mikill munr, þá er þeir enda þetta hit stundlega líf, at þeir hafa þá tekit sitt verðkaup af orðlofi manna firir sinn frama, enn eigu þá vón hegningar firir sín brot ok trúleysi, er þeir kunnu eigi skapara sinn, enn hinir, sem guði hafa unnat ok þar alt traust haft ok barizt firir frelsi heilagrar kristni, hafa þó af hinum vitrastum mönnum fengit meira lof, enn þat at auk, at mest er at, þá er þeir hafa fram gengit um almennilegar dyr dauðans, sem ekki hold má forðast, hafa þeir tekit sitt verðkaup, þat er at skilja, eilíft ríki með allsvaldanda guði utan enda sem þessi Eirekr, sem nú var frá sagt.



